Þorsteinn Pálsson:

Homöopathían
á borð við
Allopathíuna og Antipathíuna.

Ak. 1857.

1857.

# HOMÖOPATHÍAN

á borð við

# Allopathíuna og Anti-pathíuna.

# HOMÖOPATHÍAN

á borð við

# Allopathíuna og Antípathíuna.

---

*Das sind die Weisen*
*Die durch Irrthum zur Wahrheit reisen.*
*Die bei dem Irrthum verharren —*
*Das sind die Narren.*
Fr. Rüchert.

Vitra manna venja er
frá villu að sannleik snúa,
en heimskingjanna háttur þver
heimskuna við að búa.

---




Akureyri 1857.

Í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,
af H. Helgasyni.

Þjer hafið nú þegar, háttvirtu og ástkæru landar! heyrt og sjeð allmikið rætt og ritað í ýmsum blöðum um hina nýju lækningafræði þá, sem nefnd er homöopathía, en vel mætti heita meðlækningafræði, þjer hafið, segi jeg, heyrt og sjeð hina vægðarlausu áfellisdóma þess mannsins um hana, sem þjer mættuð hugsa, að hefði bæði vitsmuni til að dæma rjettan dóm, og líka vilja til að segja yður ekki annað en hreinan sannleika um það efni. En af því „að sínum augum lítur hver á silfrið", og enginn maður er laus við breiskleikann, en að eins örfáir í landi voru bera nokkurt skyn á homöopathíuna, og meginfjöldi manna í því hefur alls ekkert vísindalegt við að styðjast í áliti sínu um hana enn sem komið er, þá hef jeg nú áræðt að snara þeim litla ritlingi af þjóðversku máli á íslenzku, sem þjer sjáið hjer, yður til ofurlítils þekkingarauka um eðli og ásigkomulag homöopathíunnar og ýmsar mótbárur allopathanna gegn henni.

Höfundur ritlingsins, er nafnfrægur maður á þjóðverjalandi, dr. F. A. Günther, og hefur ritað formálann seinast 1853, og ætlað ritlinginn eins og fleira sem honum fylgir, ólærðum almúgamönnum. Jeg vildi ekki áræða að semja viðlíkt ritkorn eptir honum, eða öðrum þess konar ritum, af því það hefði orðið að gilda langtum minna hjá yður, þó það hefði kunnað, ef til vill, að geta orðið yður fullt eins skiljanlegt, heldur láta yður fá að sjá hans eigið rit að svo miklu leyti sem mjer finnst jeg geta. Þó ritlingurinn kunni nú að verða yður vandskildari en jeg hefði óskað, þá vona jeg samt, að hann gefi yður ljósari hugmynd og yfirlit yfir eðli og ásigkomulag homöopathíunnar á hlið við allopathíuna (þ. e. læknisfræðina gömlu) en þjer hafið fengið, og styðji yður

til að að virða rjett fyrir yður áfellisdóma og skröksögur annara um homöopathíuna.

Jeg verð að geta þess, að það er ekki svo auðvelt að koma því laglega á íslenzku, sem ritað er vísindalega á þjóðversku með heimspekilegum og náttúrufræðislegum lækna hugmyndum um svo ókunnugt efni hjer í landi, sem homöopathian er. En lesið samt ritling þenna með nákvæmri aðgætni, og metið efnið meira en málið, og mun yður þá finnast um efnið viðlíkt og Balle um biblíuna, er hann sagði: „að hún mælti sjálf fyrir sig“. Yrði jeg þess áskynja, að þjer tækjuð nú ritlingnum og tilgangi mínum með hann vinsamlega, mundi jeg kunna yður mjög miklar þakkir, og þá reyna að hjálpa yður um annað ljósara, afnotameira og hentugra ritkorn um homöopathíuna og nytsemi hennar, áður langt líði.

Hálsi, á Sumardaginn fyrsta 1857.

Þ. Pálsson.

Homöopathían, sem kölluð er þannig af homoion paþos, það er viðlík þraut, sýnir undir eins með því nafni sínu einka-eðli þeirrar fræði, sem Dr. Hahnemann gjörði lýðum ljósa árið 1790, þá grundvallarreglu, nefnilega: að hafa það meðal við sjerhvern sjúkdóm, er ollir þeim, er taka það inn heilbrigðir í nokkuð stærri skömtum, viðlíkum sjúkdómseinkennum og þau eru, sem það er ætlað til að lækna hjá hinum sjúka; þar sem allopathían beitir hins vegar þeim meðölum, er gjöra hjá þeim, er læknast á, annars konar sjúkdóm en sá er, sem á að lækna hjá honum; eður einungis þeim meðölum, sem eru gagnstæð verstu einkennum sjúkdómsins (Antipathie). Það eru reyndar til þrjár mismunanda lækningaaðferðir, sem beitt er meðölum eptir á móti sjúkdómum, og eru þær:

1. sú, er meðölin gjöra þær áhrifur, sem alls engan skyldugleika svip hafa við einkenni sjúkdómsins (allopathiska eða heteropathiska aðferðin).
2. sú, er nákvæmasti skyldugleikasvipur er með sjúkdómseinkennum þeim, sem koma fram, ýmist af verkun meðalanna eða lífsaflsins, og hinum, er sjúkdómurinn lýsir ásigkomulagi sínu með (homöopathiska aðferðin), og

3 sú, er verkanir meðalanna í líkamanum eru öldungis gagnstæðar sjúkdómseinkennunum sjálfum (antípathiska eða enantíopathiska aðferðin).

Hvað allopathisku lækninga-aðferðina snertir, þá kennir heilbrigð skynsemi undir eins, að hún geti ekki verið rjett og eðlileg, og reynslan sannar það líka nægilega. það er fjærri öllum líkindum, og gagnsætt lögum náttúrunnar, að sannarlegri lækningu verði komið á með því meðali, sem í einkunnarverkun sinni hefur engan skyldugleikasvip við einkenni sjúkdómsins, því ef það yrði, mætti fallast á að lækna alla sjúkdóma með hverju því meðali, sem vera vildi, og væri sjúkdómnum að eins óskylt, sem þó er allri reynzlu móthverft. Menn gætu að vísu sagt, að reynslan hafi sannað það um allar aldir, að það megi lækna líka á þenna (samt ranga og óvissa) hátt, sem ekki skal neita, og vera má skiljanlegt einkum af því: 1. að lækningakraptur náttúrunnar er opt nógu sterkur til að vega sigur af sjálfum sjer, þó aðferð læknisins sje óhagfelld. 3. að hættuleg áhrif illa valins meðals verða minni fyrir það, að meðölin aptra hvert öðru vegna hinnar venjulegu samblöndunar í allopathíunni. 3. að náttúran sje ekki bundin við að lækna sjúkdóminn á einn veg, er vjer sjáum hana lækna stundum mjög lík sjúkdómseinkenni með gagnstætt verkandi meðölum.

Antípathiska lækninga-aðferðin sýnist í snöggu áliti vera hin rjetta og eðlilega, af því það sýnist, þegar lauslega er álitið, eiga að leita hins sann-

arlega lækninga-eðlis meðalanna í því, að þau votti verkun sína í þeim einkennum, er gagnstæð sjeu einkennum sjúkdómsins. En reynslan hefur nóglega sýnt, að það standi ekki þannig á í raun og veru, því antípathiska eða enantíopathiska læknisaðferðin veldur mjög opt verstu afleiðingum. Gæti menn þess, að hinni lifandi byggingu (organismus) verði ekki vikið við til lengdar með neinum áhrifum að utan, eins og hinum gagnstætt byggðu líkömum, heldur að lífsaflið leitast við að eyða hinum gagnstæðu áhrifum, þegar það fær efni til þess af áverka að utan, þá er hægt að skilja, að meðölin, sem verka að eins stuttan tíma, geti ekki þröngvað þeim verkunum sínum inn á líkamabygginguna til lengdar, sem eru hinu þáverandi ásigkomulagi hennar gagnstæðar, og að fyrra ásigkomulag hennar verði að koma ávalt aptur, og opt miklu verra, þegar verkunartími hinna við höfðu meðala er á enda. þessi antípathiska eða enantíopathiska lækninga-aðferð er því og með rjettu nefnd bráðabyrgðarlækning (palliativ) vegna þess svo fráleitt er, að numið verði burt með henni áframhald sjúkdómseinkennanna, að þau brjótast miklu fremur fram aptur enn svæsnari, og auðsjáanlega verri eptir skammvinna bráðabils linun.

En af því þessar illu afleiðingar flutu eðlilega af þessari antípathisku viðhöfn meðalanna, leituðust menn — og heldur heimskulegu — við að veita aptur hjálp með því að gefa sterkari skamt af meðalinu í hvert sinn og versna fór; en af því flaut annaðhvort annað verra, eptir að eins svip-

stundar svíjun, og æ meiri þörf á enn meiri inngjöf, ellegar þá lífshætta og dauði, en aldrei lækning gamals eða nokkuð eldra meins.

Hefðu menn sjeð tilefni þessara óheppilegu afleiðinga af brúkun gagnstætt verkandi meðala, þá hefðu þeir fyrir löngu mátt hafa skynjað, að þeir hefðu ekki fundið enn hina rjettu lækninga-aðferð með svo gagnstæðri aðferð við sjúkdómseinkennin, og að langvinn og fullkomin lækning gæti ekki komizt á með öðru en homöopathiskri meðferð meðalanna eptir einkennalíkingu þeirra. Eptir því lögmáli, þó menn þekktu það ekki, hefur öll lækning tekizt á öllum öldum, er tilviljunin hafði kennt að hitta gagnlegt meðal við tegund sjúkdómsins, og af því menn gátu ekki gjört sjer það á neinn veg skiljanlegt, kölluðu þeir það einkunnar (specifisk) meðal.

En virði menn nú þau meðöl betur fyrir sjer, sem frá fornöld hafa verið kölluð einkunnarmeðöl, þá kemur upp, að sum þeirra, sem læknisfræðin hefur reynt smámsáman með ýmsu móti og við ýmsa sjúkdóma, hafa ávalt gefið beztu raun, þar sem aptur meginfjöldinn af þeim hefur eigi að eins ekkert gagnað, heldur valdið illu einu Tilefni þessa kvitts liggur nú í því líkingalögmáli, sem Hahnemann leiddi loksins í ljós, og sem meðölin sýna einkunnarverkun sína eptir, og af því kemur það upp: að öll hingað til kunnug einkunnarmeðöl, eru það eptir lögmáli homöopathíunnar, og fyrir það hafa menn rjettilega kallað hana hina einkunnarlegu lækn-

isaðferð, sú grundvallarregla hennar, að menn eigi að velja og hafa þau meðöl við hvern sjúkdóm, er geti gjört sem líkastar verkanir sjálfum honum hjá ósjúkum, hefir því ávalt sannað það með reynslunni að hún sje fullkomlega rjett.

Lækningamegn meðalanna er þannig komið undir því, að einnkenni (Symptom) þeirra sjeu lík einkennum sjúkdómsins, og þeim þó nokkuð sterkari, svo að hvert einstakt sjúkdómsatriði læknast á vissasta, fullkomnasta, fljótasta og langvinnasta hátt einungis með því meðali, sem getur sjálft gjört öll sjúkdóms einkennin sem líkust og fullkomnust, og látið þau vera sjúkdómnum nokkuð sterkari. Þar eð þetta lækningalögmál stendur stöðugt eins og áþreifanlegur sannleiki, og birtir sig í ótölulegum prófunum, og enda í almennu lífi[1], þá er lítið komið undir vísindalegri úrlausn um það, hvernig á því standi, og á öllum þess konar þýðingar tilraunum er mjög lítið mark takandi. Álit Hahnemanns sjálfs um það í Organon der Heilkunst § 29. mætti vera líklegast, af því það er byggt á langvinnri reynslu. — Af því nefnilega sjerhver sjúkdómur (og eins sá er handlæknis þarf við) sprettur einungis af sjerstöku veikindahapti á lífsaflinu og tilfinningu og iðju þess, þá veitir

[1]) Við ofhita æsingu í líkamanum kæla menn sjer með brennuvíni, sem ollir sjálft æsingu og hita. Þeir hita sjer í kulda með köldu öli; þeir lækna kalinn lim með að þekja hann snjó, eða halda honum í ísköldu vatni; þeir lækna brunasár af eldi við hægan hita af eldi, eða með nýfundinni vökvablöndu af brennuinstlu, og svo frv.

homöopathiska læknisaðferðin lífsaflinu — sem hept er af eðlilega sjúkdómnum — aðrar nokkuð sterkari, viðlíkar, tilbúnar sjúkdóms-áhrifur, með því að gefa inn það meðal, sem nákvæmlega er valið til að mjög líkum áhrifa-einkennum, og þeim þannig skotið eins og inn á stöðvar hinna veikari svipuðu einkenna eðlilega sjúkdómsins, og þá er lífsaflið knúð til að beita harðara viðspyrnu-afli móti þeim, af því meðals áhrifurnar snerta það nú jafnmeira; og það sigrast bráðum á þeim, af því meðals áhrifurnar endast að eins stuttan tíma; og þannig leysir það sig og líkamabygginguna bæði fyr af hinum aflminni einkennum eðlilega sjúkdómsins, og svo líka síðar af einkennum gjörðarsjúkdómsins. Hin skammvinna verkun meðalsins, sem skapar gjörðarsjúkdóm, veldur því, að þó hún sje mun sterkari en eðlilegi sjúkdómurinn, þá á lífsaflið hægra með að sigrast á henni en eðlilega sjúkdómnum, sem lífsaflið á svo bágt með að hrinda af sjer, einungis vegna hinna langvinnari áhrifa hans, sem eru líka lífinu svo gagnstæðileg, þangað til læknirinn espar lífsaflið meira með öðru því afli er sýkir á líkan hátt, og leggst að því á stöðvum hinna fyrri einkenna eðlilega sjúkdómsins, svo það verður að vísu nokkuð sjúkt af meðalinu, en að eins stutta stund, því verkun þess eða meðalssýkin við helzt ekki lengi.

En áður enn þeirri spurningu skal svara: á hvern hátt verka hin homöopathisku meðöl í sjúkri líkamabyggingu? er til-

hlýðilegt að minnast á hin almennu skilyrði við lækningu sjúkdóma.

Líkamabyggingin (organismus = allt hið fasta og rennanda, sem í einu lagi og eðlilegu sambandi sín á milli myndar líkama eða líf mannsins) er hneigir sameiginlega athöfn sína að viðhaldi og eflingu sjálfrar sín, hún þroskast eptir því lögmáli sem í henni býr, þangað til hún nær sínu vissa framfara takmarki, en er líka háð áhrifum utan að, af því hún er einn partur líkamlegu veraldarinnar, og þarf þeirra nauðsynlega við til að geta staðizt og þroskazt. Hún stendst ekki af sjálfri sjer, og er bundin tiltölulegum og nauðsynlegum áhrifum að utan. Af þessu sprettur það, að hún getur orðið sjúk og verður opt að verða það. En sjúkdómur — af því lifandi líkamir einir fá hann, og hann sýnir sig með, lífsaflinu eiginlegum og viðeigandi einkennum þeim, sem eru þó heilbrigðu ásigkomulagi fráleit — getur ekki talizt hið sama sem tilefnin er olla honum, ekki eins og neitt sem er utan við lífið, heldur eins og takmörkun lífsins sjálfs, og (af því enginn sjúkdómur getur hreift fyrstu einkennum sínum nema á einstökum pörtum í líkamabyggunni, vegna eðlilegs ásigkomulags síns, og þeirrar sjerstöku náttúru og iðju, sem hvert verkfærið hefir út af fyrir sig) — eins og einstök — bæði að eðli og vexti reglulegu ásigkomulagi frábrugðin athöfn eins verkfæris eður kerfis, sem hinir partar líkamabyggingarinnar eða alkerfisins spyrna móti, til að geta jafnað úr ósamhreimnum. Af því sjúkdómur er þá ætíð staðbundinn fyrst,

og lífið er því hvorki allt saman beinlínis gagntekið, nje tiltölulegur sjálfsmegin og sjálfsviðurhalds hvöt þess horfin; þá verður að vera auðið að víkja hinu sjúka ásigkomulagi í lag með lífsaflinu, eða með styrk vissra áhrifa þeirra að utan, sem eiga við sjerhvert breytt ásigkomulag (af því líkamabyggingin hefur ekki misst meðtækilegleik fyrir áhrif að utan).

Allt það, sem er í nokkru sambandi við lífið, getur í vissum kringumstæðum bæði sýkt og læknað, og það er ekki nema tiltölulegur mismunur á eiturtegundunum, meðalaefnunum og næringarmeðölunum, þegar þau eru notuð sem lækningameðöl.

Því meira ólag sem komið er á í líkamabyggingunni, og því síður sem hún getur bætt aptur úr því af sjálfri sjer, þess síður hrekkur það til lækningar, að laga daglegu viðurværis reglurnar, og þess fremur þarf áverkunar þeirra hluta, sem eru líkamabyggingunni óvanalegri (óskyldari), lenda í meiri baráttu við hana, og geta leitt fram í henni önnur einkenni en hin venjulegu (þ. e. meðöl). Verkanir þeirra hluta, sem hafa áhrifur á lífið, geta nú greinzt að á tvo vegu: þær fylgja annaðhvort hinu náttúrufræðislega (chemiska eða mechaniska) lögmáli, er einnig gildir fyrir dauðu líkamina, elleg-ar þær eru því fráleitar, og rekja ætt sína einungis frá lögmáli lífsins (vitale, dynamiske). Þessar ólíku verkana-tegundir eru opt samferða, en þó þannig, að þessi eða hinn verkunarmátinn hlýðir hverjum verkandanum. Hinar eiginlegu verkanir

meðalanna, sem læknirinn hefur til sjúkdómslækninga, eru einkanlega lífsaflafræðislegs (dynamisk) eðlis Sökum þess, eins og fyr er sagt, að verkun hvers þess afls, sem hrífur á líkamabygginguna, leitar fyrst á vissan vef, verkfæri eða kerfi í henni, þá má hafa orðið einkunnarlegur — (þegar það er látið þýða „hina eðlilegu áverkun eins afls á vissa parta í líkamabyggingunni", sem hvorki er hægt að þýða sjer eptir mechanisku eða chemisku lögmáli, og sýnir þá frjálsa verkun sína á viðkomu stöðunum) — eigi að eins um þær tegundir sem hrífa einkum á viss verkfæri (t. a. m. Opium og Belladonna á heilann, Mercuralia á munnvatnskyrtlana, Nux vomica á mænuna og taugakerfið, o. s. frv.), heldur einnig um hin önnur meðöl, sem verka eptir lögum krapta sinna, og í einu orði: um allar slíkar (dynamiske) áhrifur. En það er mikill mismunur á einkunnarlegum öflum og einkunnarlæknismeðölum sjer í lagi, eins og vjer munum seinna fá að sjá.

Grundvöllur og fyrsta skilyrði læknis-aðgjörða er, eptir áður sögðu, lífsiðjan sjálf, sem getur tekið áverkun að utan, og sýnir sig í heilbrigðinni sem sjálfsviðurhaldshvöt, en í sjúkdómi sem lækningaafl náttúrunnar. Til að geta nú ákveðið, hvort og að hve miklu leyti lífsaflið geti af sjálfu sjer bætt úr því ólagi, sem sjúkdómurinn er búinn að olla í líkamabyggingunni, og ef því er neitað, hvað íþróttin geti þá ráðið úr til að styðja aðgjörðir náttúrunnar sem bezt til lækningar, er á annan bóginn nauðsynlegt að þekkja sjúkdóminn að eðli og

vexti (Diagnostik), sem og þá vegi er náttúran leitar á til að lækna (Physiatrik) og á hinn bóginn að þekkja tiltöluna milli áhrifanna að utan og vissra hliða líkamabyggingarinnar, sem og ásigkomulag hennar í sjúkdóminum í tilliti til áhrifa sjerhvers áverkanda (Pharmakodynamik).

Eðli og næsta tilefni sjúkdómsins, geta ekki í verklegu tilliti heitið umbreytingar þær í gangi lífsins, er olla hinum þekktu sjúkdómseinkennum, það er: hinn eiginlegi og fyrsti uppruni hans, því hann hefur á þenna dag verið og er eins óuppgötvanlegur eins og fyrsti uppruni lífsins sjálfs, og allar tilraunir um að láta hann vera mið lækningarinnar leiða út á hálan villuveg, sem bæði er fyrirlitlegur, og einkum hættulegur, sje hann farinn, þegar um er að gjöra hin æðstu jarðnesku gæði mannsins. Menn geta því ekki með neinum orðum útskýrt annað en röð hinna kunnu einkenna á lifandi og dauðri líkamabyggingu, sem sýna sig eins og nauðsynlegar röksemdir um breytingu í gangi lífsins, og verða að metast eins og eðlis og deildarmerki þess eða þess sjúkdóms.

Einkennin koma fram að sumu leyti eins og breyting iðjunnar, að sumu leyti sem takmörkun (Modificatio) efnisins. þessi sjúkdómseinkenni verða hver um sig að álítast eins og skilyrði hver annara og nauðsynlega samferða, af því menn geta ekki hugsað sjer tæringu kraptanna án tiltölulegrar breytingar í efninu, og enga breytingu (tæringu) lífsins án breytingar á einhverju í efni líkamans. En þó hver um sig sjeu mikils um verð,

hlýtur læknirinn að snúa sjer einkum að hinum fyrri, einkum nefnilega að hinum aflafræðislegu (dynamiske) einkennum, því það er ekki hægt að sjá hinar smágjörfustu umbreytingar í efninu frá því sem á að vera, hvorki í lifandi nje dauðri líkamabyggingu.

Til að uppgötva eðli sjúkdómsins þannig, þarf fyrst og fremst fullkomna og nákvæma hugmynd um sjúkdómseinkennin, sem láta sig í ljósi í líkamabyggingunni. En af því það er svo mikill og tiltölulega gagnstæður mismunur á þeim, eptir því hvort þau koma fram eins og upprunaleg (primær) eða eins og meðeinkenni (secundær) eður þau koma frá þeim verkfærum og kerfum, sem spyrna móti sjúkdómunum, verður að meta þau eptir eðlilegu sambandi þeirra, eptir röðinni sem þau fylgja, og lífsaflafræðislegri (physiologisk) þýðingu þeirra, og að greina þau upprunalegu frá hinum, hin almennu frá þeim einstaklegu, sem og hin eðlilegu, frá viðspyrnu - einkennunum. Hins sama er að gæta, þegar skoðað er það sem úr lagi er gengið í dauðri líkamabyggingu (á líkum).

Af því eðlis-ásigkomulag sjúkdómsins, sem komið er undir tilefni hans, lætur sig ekki ávalt greinilega í ljósi í einkennunum, er opt nauðsynlegt að þekkja og aðgæta hin ytri og innri tilefni hans, til að fá fullkomna hugmynd um sjúkdóminn.

Samt nægir ekki það eitt til að lækna, að þekkja ætterni og tegund sjúkdómsins, heldur verður fremur að meta og fara með hann eins og sjerstakan, af því sjerstakar tildrögur og atvikað-

ar aukakringumstæður eiga opt þátt að gangi hans. Af þessu leiðir það, að það er svo mikið komið undir meðeinkennunum. Fyrir þetta er ógjörandi að líta einungis á hið almenna, en skipta sjer ekki um hið sjerstaka, og byggja á því einu lækninguna, eins og að hafa sambands- og greindarlausa heild sjúkdómseinkennanna fyrir mæliþráð um meðferðina. Hvort um sig er óhöndugt og óverklegt, hið síðara líka gagnstætt vísindum.

Um viðburðina, sem lífsaflið hefur til að lækna sjúkdóminn af sjálfu sjer, hafa einkum á seinni tímum verið gefnar nákvæmar bendingar, en hjer á ekki við að skýra frá gangi og árangri þeirra.

En þegar lækninum, sem læknisfræðingi er nauðsynlegt að þekkja sjúkdóminn í almennu og sjerlegu tilliti, og líka vegi þá, er náttúran velur sjálf til lækningar, þá er honum og hið þriðja ómissandi, sem er að þekkja öfl þeirra meðala, er honum eiga að þjóna eins og verkfæri til að styrkja og leiða náttúruna í læknisviðburðum hennar. þessi þekking á öflum meðalanna verður og að vera þannig sem þekkingin á sjúkdóminum. Hún hlýtur að ná eigi að eins yfir hinar sjálfsögðu og almennu verkanir sem meðalið sýnir á vissum iðjureit í líkamabyggingunni, heldur og yfir þær sjerstaklegu breytingar, sem kringumstæður, aldur, kynferði, geðslag, eðli, skapnaðarlag, ásigkomulag, lifnaðarháttur, tímabil dags og nætur og árs, loptslag og veðrátta, o. s. frv. olla í henni. þar að auki verður — eins og þegar sjúkdómurinn er íhugaður — að greina vel í sundur fyrri (primær) og

síðari (secundær) einkenni meðalsins, sem og þau sömu (erstwirkung) frá viðspyrnu-einkennunum (Nachwirkung) í líkamabyggingunni.

þessa þekkingu geta menn áunnið sjer á ýmsan hátt; hinn beinasti og óhultasti er sá, að prófa meðölin á heilbrigðum. Áður enn Hahnemann lagði grundvöll hinnar homöopathisku lækninga-aðferðar, voru þess konar prófanir gjörðar einungis um hinar sterkhrífandi tegundirnar (eitur) að fáeinum frá skildum, og að mestu leyti á dýrum.

En þó eigi sje litið á það, að fjöldi af verkanaríkum meðölum varð út undan þess konar prófun, af því menn — að því er sýnist — íhuguðu ekki, að þau mundu líka sýna verkun á ósjúkum, þó þau hefðu lengi og á ýmsan hátt verið viðhöfð í sjúkdómum, eða af því menn hjeldu, að það væri lítið komið undir að vita þessar verkanir — þá gat ágóðinn af þessum prófunum ekki orðið nema tiltölulegur (relativ) fyrir mismuninn á líkamabyggingu mannanna og dýranna, sem og hitt, að dýrin gátu svo sem ekkert skýrt frá tilfinningum sínum. Hahnemann hlaut þá miklu virðingu að verða fyrstur manna til að sýna hversu nauðsynlegt það væri að prófa **öll** læknismeðöl á ósjúkri líkamabyggingu, og að auðga fjesjóð fræði vorrar um öfl meðalanna með mörgum prófunum sjálfs sín. Á móti gagni og þörf þess konar prófana hafa menn hreift þeirri mótbáru, að lækninum riði minna á að vita, hvernig meðölin verki hjá ósjúkum en sjúkum; en því má svara á þessa leið: Hefðu menn ekki af tilviljun eða inn-

vortis hvöt lært að þekkja gagn vissra tegunda við vissum veikindum, og fyrir það náð — en þótt ekki óhultri — stefnu með brúkun læknismeðala í sjúkdómum, þá hefðu þeir leiðst og knúðst af sjálfum sjer til að prófa meðölin á heilbrigðum, því að prófun þeirra á sjúkum hefði orðið óviss og hættuleg, þegar þeir hefðu ekki þekkt verkun þeirra. En þegar þekkingin studdist á annan bóginn við reynslu af tilviljun um lækningakrapt meðalsins á sjúkum, sem ekki gat nægilega sýnt lækningakrapt meðalsins, en hið mesta af læknishjálp er þó á hinn bóginn bundið við þekkingu um rjett öfl meðalanna, verða menn — af því kunnugt er, að hún fæst ekki á annan veg — að viðurkenna hve þarft og nauðsynlegt sje að prófa meðölin á heilbrigðum, eigi læknismenntin hins vegar að ná þeirri fullkomnun sem fremst má verða. Það er ávalt gild regla fyrir hverja vísindalega rannsókn, og samboðin lögum hugsunaraflsins að feta frá hinu einfaldasta til hins flóknara og torskildara, að skýra fyrst hálfdimmu hliðina á hlutnum, og síðan hið dimmra vandskildara ásigkomulag hans. Eins og það svarar því náttúrinni og skynseminni að fræðin um öfl og verkfæri lífsins (Physiologie) gangi á undan sjúkdómafræðinni (Pathologie), þannig líka hitt, að þekkingin um verkun meðalanna í rjettu ásigkomulagi (heilbrigði) gángi undan rannsókn um hana í aflöguðu ásigkomulagi.

Inntökur þær af eitri sem borið hafa til bæði af vilja og vangá gefa oss líka kost á að auðga

þekkingu vora í þessu efni. Þær sanna hið áður-sagða, því prófun sterkhrífandi meðalategunda, eins og hin svo nefndu eitur eru, verður nauðsynlega að vera takmörkuð, vegna lífs og heilsu þeirra, sem þau eru prófuð á.

Að því leyti loksins, sem eptirtektina um verkun meðalanna hjá sjúkum snertir, sem er sú eina lindin, er þekkingin um verkun þeirra var fyrrum ausin úr, þá gat hún margs vegna enga hreina nje yfirgripsmikla ályktun veitt. Meðölin voru nefnilega ekki einu sinni höfð hrein og óblönduð heldur mest megnis í samsulli við önnur, sem eiginlegleiki hins einstaka fórst annaðhvort fyrir af, í blöndu hinna tegundanna, svo verkun sú er sást, varð að eignast blöndunni allri saman, ellegar þá er eitt einstakt meðal í henni gat þó sýnt verkanir sínar, varð að vera torvelt ef ekki óvinnandi að eigna hverju meðalinu sinn rjetta þátt í verkuninni.

Eins torvelt varð líka að vera tíðum að greina sjúkdóms- og viðspyrnu-einkennin frá verkunum meðalsins, hvort sem það var gefið óblandað eða í blöndun við önnur, og því torveldara sem verkun meðalsins var dulari og linari, og eðlileg tímalengd sjúkdómsins ókunnari, og hann sjálfur samtvinnaðri; það varð líka að gjöra þetta enn torveldara, að verkanir meðalanna verða fyrir takmörkun við óreglulegt ásigkomulag í líkamabyggingunni, af því þær eru sterkari eða linari enn í ósjúku ásigkomulagi eptir því sem viðkvæmni þeirra parta er meiri eða minni, sem þau hafa tiltölu til, koma enda ekki fram á vissri stefnu, eða sýna sig einungis með

vexti eða minnkun sjúkdóms-einkennanna, og þó eigi verði borið móti, að eptirtektasömum læknum í mörg ár hafi heppnast með ítrekaðri brúkun sama meðalsins við ýmsa sjúkdóma, að gefa upplýsingu um verkun margra meðala og meðalablanda, einkum um aðgjörðamestu verkanir þeirra; þó enda megi játa, að homöopathían hafi haft margfalt gagn af þeim athugasemdum og áunnið fyrir þær leiðbeiningu til frekari prófana, þá kennir þó reynslan, að hin eðlilegu auðkennismerki einstakra meðala, og enda margar einkum hinar smágjörfari einkunnarlegu eðlistegundir hjá hinum betur þekktu, hafi verið óprófaðar, og margir ærið verkanaríkir meðalalíkamir óaðgættir og ónotaðir — og þetta er það atriði, sem homöopathiska meðalafræðin, og hinar mörgu lækningar hennar veita nægilegar röksemdir um. Meðalaprófanir á heilbrigðum ber þannig að meta eins og náttúrunni samkvæmasta meðal bæði til að læra að þekkja og hafa ný lækningameðöl, og til að prófa, hreinsa og fullkomna það, sem hin eldri meðalafræði hefur, mitt í því að reynslan um meðölin á sjúkum gefur þannig sönnun um rjettlæti hinna þannig fengnu úrslita.

En þekki menn nú nákvæmlega og fullkomlega verkanir einhvers læknismeðals á ósjúkum, þá er spurningin enn fremur sú, hvernig það hagi sjer á sjúkum og verði notað til lækninga? Um þetta getur einungis reynslan og prófanin gefið úrlausn, og koma þá einkum þessi atriði til yfirvegunar:

1., hverjar breytingar fá verkanir meðalanna á annan bóginn, og sjúkdóms og viðspyrnu einkennin á hinn, þegar þær standa í beinu hlutfalli við hið sjúka verkfæri eða kerfi, og enn fremur:

a., þegar þær kveikja í þeim sjúkdóminum viðlíkan.

b., sjúkdóminum fráleitan.

c., sjúkdóminum gagnstæðan gang?

2., hverjar breytingar fá þær, þegar þær hafa hlutfall til annarar en hinnar upprunalega sjúku hliðar líkamabyggingarinnar, og

a., þegar þær hrífa (gagntaka) hin meðsjúku verkfæri, sem spyrna móti sjúkdóminum, og eru hinum upprunalega sjúku pörtum nátengd að mótspyrnu eða hluttekningu, eða

b., eru þeim ekki nátengd að öðru en almennu byggingarsambandi — og hrífa þau á (organa):

*a.*, sjúkdómseinkennunum samsvarandi — ellegar þeim fráleitan — eða

*b.*, þeim gagnstæðan — hátt?

Þessar spurningar, að svo miklu leyti sem hægt er að svara þeim eptir þeim ófullkomnu rökum, sem eptirtektin hefur veitt hingað til með tilliti til nefndra hlutfalla — fá eðlilega úrlausn, þegar hugleiddur er hver lækningamátinn fyrir sig, eptir því sem hann hefur reynzt, nefnil. sá allopathiski, antípathiski og homöopathiski, sem upphaflega var áminnzt.

Eptir þessar athugasemdir getum vjer loksins snúizt við að svara þeirri spurningu: á hvern

hátt verka homöopathísku meðölin í sjúkri líkamabyggingu?

þegar lífsaflið sýnir ákvörðun sína á þá leið í ósjúkri líkamabyggingu, að það leitast við að viðhalda öllu ósködduðu, og iðja hvers verkfæris og kerfis heldur áfram fyrir þetta í slíkri samhljóðun, að manninum vegnar vel að öllu, þá sjáum vjer að það kemur fram í sjúkri líkamabyggingu sem svo kallað lækninga-afl náttúrunnar í baráttu við hin óvinsamlegu völd, er ráðist hafa á hana, til að hrinda hinni röskuðu jafnvigt aptur í lag sem mest. Einkennin sem koma í ljós af þessu viðspyrnu-afli lífsins, gegn hinum óvinsamlegu völdum, eru nú sjúkdómseinkennin, og ásigkomulag þeirra verður að leiðbeina oss til að meta eðli og megn hinna óvinsamlegu áhrifa á hvert verkfærið. — þannig sjáum vjer allopt að læknis-afl náttúrunnar útrýmir öldungis með viðspyrnu sinni áhrifum hinna óvinsamlegu valda, en þó hitt miklu optar, að það reisir ekki rönd við ofbeldi þeirra, svo það verður nauðsynlegt að styrkja atburði þess þannig, með tiltölulegum meðölum, að það geti sigrast á þeim.

þegar vjer megum þá álíta sjúkdómseinkennin eins og röksemdir um baráttu lífsaflsins við hin óvinsamlegu völd, þá verður einka tilgangur vor að vera náttúrlega sá, hvernig sem á stendur, að styrkja hverja viðleitni þess þannig — og stefnu þess megum vjer sjá á einkennum sjúkdómsins —, að það fái borið sigur af hinum óvinsamlegu árásum.

það varðar því mestu að hjálpa sjúkdómseinkennunum, sem eðlilegum röksemdum um viðleitni lífsaflsins, og það getum vjer einungis með þvílíkum meðölum, er vakið geta sem líkust einkenni í ósjúkri líkamabyggingu, það er: með homöopathiskum meðölum. það er því ávalt gleðilegur vottur, að sjá hin eðlilegu sjúkdómseinkenni vaxa nokkuð litlu eptir inntöku homöopathiska meðalsins, af því þá sýnir það sig, að viðspyrnu-aflið hafi styrkzt, sem er viss vottur þess, að sjúkdómurinn sje farinn að bila og nálgast endalok sín.

þessi svipstundar vöxtur sjúkdómseinkennanna sem vöxtur viðspyrnuaflsins sannar sig með um leið, er nú það, sem nefnist homöopathisk versnun. — þegar homöopathinn leitast þá við því, að stöðva hina óvinsamlegu æsingu með því að hefja lífsaflið á beinan hátt til meiri viðspyrnu, og útvega því þannig yfirhönd yfir hinum illa áverkanda, þá keppist allopathinn við, sem álítur sjúkdómseinkennin fyrir afkvæmi hins illa áverkanda, að ná tilgangi sínum á öfugan hátt með því að kefja þau og bæla, er hann leitast við að brjóta niður ókyrrleika verkfæranna. Homöopathinn hittir ávalt á upprás óvinsamlegu æsingarinnar, þegar hann kann að þekkja þá stefnu sjúkdómseinkennanna, sem lífsaflið leitar á í viðburðum sínum, og þekkir og notar þau meðöl, sem veita viðburðum þess meira afl á stefnu sinni, svo að sjúkdómurinn læknast fyrir það á fljótasta hátt, að fullu lífsafli. Allopathinn þar á móti, sem keppist við að bæla niður áhrifur hins óvinsamlega

áverkanda á verkfærin og kerfin, læknar á þann hátt, að upprás hinna illu áhrifa teppist smámsaman. En með því heptist líka lífsaflið, og kemur fram það ásigkomulag, sem hvorki er heilsa nje vanheilsa (Reconvalescents) sem opt snýst eptir langan tíma í heilbrigði. En opt verður líka annað ofan á, það nefnilega, að hin illu áhrif eru ekki læknuð, heldur að eins bæld niður um stund, og brjótast þá skjótt upp aptur með nýju afli, sem allopathinn kallar Recidiv, eða nýja árás, sem ekki mætir homöopathanum, af því hann hefur afmáð upprás hins óvinsamlega áverkanda.

Hjer má nú enn minnast eins atriðis, er greinir homöopathíuna og allopathíuna nærri því eins mikið sundur og undirrótin, er hvor um sig sprettur af. Þegar reynslan kennir homöopathanum, að þau meðöl sýni verkun sína enda í minnsta skamti, sem gjöri sjálf viðlík einkenni þeim sjúkdómseinkennum, er lífsaflið sýni með stefnu baráttu sinnar við hinn illa áverkanda, og að því meiri sjúkdómurinn sje, og líkara hlutfallið milli lífsaflsins og meðalsaflsins, þess meiri sje meðtækilegleikinn, og þess minni skamta eigi að hafa, þá beitir hann meðölunum einungis í þvílíkum skamti, að lífsaflið knýist ekki framm úr rjettu hófi í atburðum sínum, og það sýnir sig jafnframt, að enda minnstu meðalaskamtar hafi sína verkun, þrátt fyrir allt það sem fyr hefur reynzt. Allopathinn þar á móti þarf sterkustu og opt endurnýjaðar inngjafir, af því meðölin hans eru ekki í neinu svipuðu hlutfalli við sjúkdóminn er læknast á, eða eru öldung-

is gagnstæð þeirri stefnu sem lífsaflið hefur tekið til lækninga, og geta því ekki annað enn ollað gagnstæðri athöfn í líkamabyggingunni.

En þó homöopathisku meðalaskamtarnir sjeu svo smáir, þá eru þeir ekki teknir upp af handahófi eins og leikfang, heldur hafa þeir með reynslunni, sem hjer getur ein skorið úr, sannað það fullkomlega, að þeir (svona smáir) eru áhrifa beztir og samsvara tilganginum. Spyrji enginn maður, hvernig það geti verið, að það meðal verki nokkuð, sem ytri skilningarvitin verði næstum ekki vör um, eða geti leitt svo ágætar verkanir í ljós, sem homöopathían eigi nóg af að benda á, þessi venjulega mótbára: „það er á móti heilbrigðri skynsemi, það er vitleysa og hjátrú", er sannarlega eitt hið óviturlegasta, sem menn hafa komið með á móti.

Enginn, og ekki þverbrotnasti óvinur homöopathíunnar hikar að neinu við að játa það, að þaksteinninn sem fellur ofan af húsi fyrir fætur manns, geti gjört honum svo illt við, að hann verði sjúkur af því. En hvernig er sá líkami sem hjer breytir heilbrigðinni? — Reiði, gremja, hryggð, súgur, óhollt lopt, og næm veikindaefni, o. s. frv. hafa viðlíkar verkanir, og þó telur enginn það gagnstætt heilbrigðri skynsemi að hugsa, að sumir hafi ollað sjer gallsýki fyrir reiði, eða flugkveisu fyrir ofkælingu. Þannig efar þá enginn maður að öldungis andlegar áhrifur geti unnið á líkamlegt ásigkomulag mannanna, af því reynslan sannar það nægilega, en hitt vilja menn efa, að sá andlegi

kraptur sem óneitanlega býr í tegund meðalsins, og að öllum líkindum er vakinn og lífgaður upp sjerstaklega með núningi og hristingi við þynningar- eða aflauka-aðferðina (Potentsering) geti breytt ásigkomulaginu, er það sjálfu sjer samkvæmt? Annaðhvort ættu menn að neita **öllum** andlegum áhrifum á tilfinningar ásigkomulag manna „eins og gagnstæðum heilbrigðri skynsemi“, sem engum viti bornum getur þó hugsazt, ellegar eiga þeir að eigna þeim meðölum þær, sem gefa að minnsta kosti þá sömu raunina.

Að sá kraptur sem ómótmælanlega býr í meðalategundunum, verði vakinn og gjörður frjáls með núningi og hristingi (Manipulatio) við þynningar-aðferðina er meir en líkindum sæti, enda sanna það margir áþekkir atburðir á reit náttúrufræðinnar. Þannig getur til dæmis hver maður farið hendi um bikstorku í blikkformi, án þess að kenna nokkurra áhrifa. En núi eða slái menn þenna svo nefnda rafurbera, (Electrophor) með refskotti eða kattarskinni, þá kemur úr honum mesti grúi af rafurneistum, er safna má saman í leiðiflösku og auka. Er nú ekki þannig berlega vakinn úr dái sá andlegi kraptur — með hinum einfalda áslætti (Manipulatio) refskottsins — er blundaði í hinu dauða efni, og ytri skilningarvitin gátu ekki orðið vör um? Náttúrufræðin getur bent á mörg viðlík dæmi. Menn geta snert litlar plötur af zinki, kopar og fílti (klæði, pappa), án þess að fá nokkra tilfinningu af. En leggi menn þær þannig hverja ofan á aðra, að ein fílt-plata, döggvuð með salt-

vatni verði milli zinks- og kopar-plötunnar, þá verður úr því hin nafnkunna „galvaniska súla“, sem vakið getur næstum því dauða upp með hinu undarlega andlega afli sínu Tveir járnmolar sem liggja saman, hafa enga sýnilega verkun hvor á annan; en núi menn annan þeirra frá einum enda til hins með segulsteini, þá fær hann seguleðli fyrir það einfalda handbragð, og dregur þá hinn járnmolann að sjer, og láti menn hann synda á kvikasilfri eða á uppsettum oddi, þá beinir hann ávalt öðrum enda sínum í norðurátt. Enginn maður efast um, að þessi undraverðu öfl, rafuraflið, Galvansaflið, og segulaflið sjeu öldungis andlegs eðlis og að þau verði vakin upp með einberu handbragði, sjer hver maður með eigin augum. Allt hið sama sýnir sá atburður, að þegar búið er í 3 tíma að blanda og elta saman hina alkunnu blöndu af brennisteini, saltpjetri og koli, sem kallað er „púður“, þá hefur það fengið afl til að kasta kúlu langan veg; sje þetta gjört í 4 tíma, þá vex aflið töluvert, og þó enn meira sje það gjört í 5 tíma, en sje það nú gjört í 6 tíma, þá hefur það fengið hið mesta, hið undraverða afl sitt, (sjá Meyers Artillerie Technik).

Fyrir hvað ættu menn nú ekki að geta eins vel vakið og lífgað andlega aflið í meðalategundunum með hinu öldungis svipaða handbragði við þynningar-aðferðina? Hjer við bætist það enn, að hið eiginlega, andlega lækningaefni, liggur, að því, er sýnist, svo fast bundið fjötrum náttúrunnar í hinum líkamlegu læknismeðölum,

að meltingarverkfæri manna og skepna hafa ekki nægilegt megn til að greiða og frelsa það á fætur, þar sem þynningaraðferðin frelsar hinsvegar þetta lækninga-afl hennar, að það getur flutt sig yfir um í líkamabygginguna eins og einmitt hægra veitir, eptir alkunnu lögmáli að leysa það sem íþróttin hefur blandað saman, en náttúran.

Annað atriðið sem styður verkun hinna litlu skamta homöopathíunnar, er fólgið í þeirri einskoruðu og vissu tiltölu, er þeir hafa til síns eiginlega iðjureits. Líkami manna og skepna er eins og menn vita þeim mun hæfari til að taka við umbreytingar-áhrifum að utan, sem sjúkdómurinn er búinn að gjöra hann viðkvæmari. Flugkveisusjúkur maður fær miklar þrautir af dragsúgi. Ákaflega sóttveikur maður af ber ekki að aukinn sje hiti í húsi enda hóflega. Þegar loptið eintómt snertir holan jaxl, eða kaldur dropi vatns, eða annað, sem aðrir með heilbrigðar tannir kenna einskis meins af, þá rísa upp sárar þrautir. Smávegis hristingur espar höfuðverk; lítil hræðsla veldur taugaveikum drætti og kippum eða öngviti, og blóðríkum manni er hætt við slagi af þeim hita, sem mörgum verður ekkert meint við.

En af öllu þessu flýtur það, að þau verkfæri, sem á einhvern hátt eru sjúk, hafa fengið meiri meðtækilegleika fyrir þær tegundir (meðölin) sem breyta ásigkomulaginu, svo þau láta mjög litla skamta af beinlínis áverkandi meðölum víkja sjer við, og þessi einskoraða og vissa tiltala meðalaskamtanna á sínum öldungis eiginlega iðjureit á

sjer alls kostar stað við brúkun homöopathisku meðalanna, af því homöopathinn gefur ekkert það meðal, sem hann veit eigi með fullkominni vissu um, að sýki hið sama verkfæri á líkan hátt hjá ósjúkum, sem sjúkt er hjá sjúklingi hans. Hver sem þá efar verkun hinna homöopathisku skamta, er viðlíka staddur og sá, er ekki trúir þeim er tannpína þjáir til þess, að einn dropi af köldu vatni, eða lítill dragsúgur olli honum megnum þrautum.

Og í þriðja lagi er verkun hinna smáu homöopathisku skamta studd sjer í lagi með því, að rýma því öllu nákvæmlega frá, sem aptrað getur henni. En öptrunar tilefnin eru ýmist í þeim meðölum, sem brúkuð eru, eða í öðrum hlutum, sem þeim eru óviðriðnir en verka þvert á móti. Hvað hið fyrra snertir, þá er í homöopathiska meðalinu ekkert það, sem hamli að neinu leyti verkun þess, af því það er einfalt, þ. e. ekki sett saman, eins og hjá allopöthunum, af margs konar meðölum, sem gjöra nýjar og að öllu ókunnar verkanir þær, með hinum nýja samanblandaða líkama sínum, sem eyða hver annari. — En því veldur líka annað, að í homöopathisku meðölunum getur ekki legið nein verkunar fyrirstaða; þau eru ekki gefin svo opt inn að lækningin teljist, eða langvinnur gjörðarsjúkdómur sje settur á stöðvar eðlilega sjúkdómsins. Þegar t. a. m. allopathinn hefur Kínabörk við einni tegund köldu-veikinnar (Vexelfeber), þá breytir hann öldungis rjett í því, af því það meðal gjörir á heilbrigðum viðlík sjúkdómseinkenni; en þegar

hann lætur taka inn af því fullan matspón annan og þriðja hvern tíma, þá kveikir hann þann meðalssjúkdóm með ofurúkun þess, sem svipaður er þeim eðlilega sjúkdóminum, er hann ætlar að lækna, og gjörir svo sjúkdóminn að minnsta kosti langvinnari að þarflausu, svo hann fer tvö fetin aptur á bak, þegar hann hefur farið eitt áfram. Homöopathinn aptur á móti býður eptir verkun þess meðals, er hann hefur gefið inn, og gefur aptur annað þá að eins, er eiginlegur gangur sjúkdómsins heimtar það. En hann er samt ekki einungis laus með því við þá hættu að spilla því aptur með ofmikilli inngjöf, sem hann er þegar búinn að bæta, heldur kemst hann og hjá því, að gjöra líkamabygginguna sjúklingsins — með því meðali, sem breytir ásigkomulaginu og æsir lífsaflið í sífellu til viðspyrnu —, að þeim hólmgöngureit, sem hið sigranda lífsafl verður allt af að berjast á, eigi það ekki að glata sigrinum.

Á hinn bóginn getur líka fyrirstaða mætt verkun meðalsins af öðrum óviðriðnum hlutum, og í því tilliti leggur homöopathían áhrifum sinna smáu skamta allan þann stuðning sem kostur er á, er hún ákveður sjúklingnum vandlætingasamt lifnaðarhæfi (Diæt) með því að hún ekki að eins fyrirmunar að neyta nokkurs þess, sem illt er til meltingar, heldur bannar einnig sjerhvað það af jarðarávöxtum sem hafa í sjer meira eða minna af meðalakrapti. Af því homöopathisku meðölin eru svo viðkvæm og andleg, og skömtuð og reiknuð að aflinu til einungis eptir því sem þörfin krefur, er

auðskilið, að vandlætingasemi homöopathíunnar í þessu efni er alls enginn tilgerðarháttur (Pedanterie), heldur byggð á einföldum lögum náttúrunnar.

Við þetta mál verð jeg að minnast enn á hina svo nefndu smærð homöopathisku skamtanna. Þrátt fyrir það sem fyr var haldið, hefur sú ætlun komið upp á seinni tímum, sem nógsamlega skýrir hina eptirtektaverðu uppgötvun Hahnemanns, að mjög lítill partur, 1 gran af einhverju því efni, sem meðalsafl hefur, geti sannað eðli sitt í millíón til decillíónfaldri þynningu, þannig, að hann fái vakið eigi að eins viðspyrnu, heldur og töluverða verkun og breytingu í lifandi líkama manna og skepna. Háskólakennari herra Doppler í Prag á virðingu skilið fyrir það, að hann hefur sýnt hvað handbragðið gjöri að verkum við þynningu meðalanna, og hvernig decillíónföld þynning meðalsins geti haft harla mikinn lækningakrapt. Eptir hans skarpskyggnu ályktun hefur nefnilega lítill hnífsoddur af dupti, eða 1 dropi af decillíónfaldri þynningu rennanda meðals, ógurlegan fjölda í sjer af líkamaflötum hins smágjörða (þynnta) meðals, og sá fjöldi vex við hvern núning eða þynningu. Þar eð nú lækninga-áhrifur meðalsins, eru eptir ætlun hans, komnar undir líkamaflötum, eða snertibroddum þess, verður náttúrlega 1 dropi af 30. þynningunni að leiða fram töluvert sterkara viðspyrnuafl enn fleiri dropar af lægri þynningu. Hærri þynningarnar skilja sig því frá hinum lægri einungis að því leyti, sem þær hafa meira í sjer

af líkamaflötum meðalsins, en ekki að því leyti sem eðlið snertir, þó margir fari því fram; svo vjer megum þá, eptir því, geta læknað eins með lægri þynningunum sem hinni 30. þynningu, þegar vjer nefnilega gefum bæði miklu meira og optar inn af hinum fyr nefndu, sem hafa miklu færri líkamafleti eða snertibrodda í sjer, og þau sannindi hefir reynslan nægilega staðfest, þar er bæði meðmælendur þrítugustu þynninganna (Hahnemanns lærisveinarnir fyrri) og verjendur hinna lægri (Griesselichs áhangendurnir) skyrskota hverjir um sig til eigin reynslu og lækningaheppni sinnar. Og þar eð eðli homöopathíunnar er nú ekki komið undir smærð meðalaskamtanna, heldur ætternislegri tiltölu meðalsins til sjúkdómsins, þá getum vjer t. d. enda með óverkuðum, ómuldum brennisteini, læknað eins á homöopathiskan hátt eins og með hinum vanalegu hærri og hæstu þynningum á honum, einungis með þeim mismun, að vjer verðum að gefa bæði miklu meira og optar inn. En þessi mismunur kemur engan veginn af því, eptir því sem háskólakennari Doppler hyggur, að afl meðalsins liggi óvakið í hinum óverkaða og óþynnta líkama meðalsins, er menn hafa hingað til ætlað, og að það sje vakið og lifgað einungis með þynningunni (því vjer finnum eins og nýlega var sagt, að hin óverkuðu efni, hafa bæði áhrifa og lækninga krapt) heldur komi það einungis af því, að hin óverkuðu meðöl hafi færri líkamafleti og snertibrodda að beita á líkamabygginguna, heldur en tilbúin meðöl eptir fyrirsögn Hahnemanns.

Þegar þannig stendur á, er þar nægilegt andsvar, um það, hverjar þynningar vjer eigum að hafa við menn og skepnur, sem menn hafa rætt og ritað um á margan hátt. Fyrst vjer vitum, að sá kraptur sje ekki í hærri þynningunum, er eigi sje til í hinum lægri, og að meðölin verði þá ekki „potentseruð“ eða „dynamiseruð“, heldur að eins margfaldlega duptuð í sundur, og fái þannig margfalda líkamafleti og snertibrodda, þá er ekki efunarmál lengur, að þar eð vjer getum haft meðölin til lækninga með góðri heppni, án þess að deila þeim endalaust, þá þurfum vjer ekki að nauðsynjalausu að hafa mikið fyrir að búa þau til og brúka þau í decillíónfaldri þynningu; við lækningu skepna mætti optast nægja að hafa billíón til qvinqvillíónfalda þynningu, og vjer gleymum ekki fyrir það hinni ágætu uppgötvun Hahnemanns um decillíónþynninguna, sem betur á við mennina, og ávalt verður undraverður atburður í náttúrunni.

Með þessari áminnstu hugmynd Dopplers um homöopathiska meðalastigann (scala) er oss líka nægilega sýnt tilefni þess, að hin svo kallaða homöopathiska versnun, sem Hahnemann varð svo opt var um, gjörir á síðari tímum miklu síður vart við sig, svo margir hafa borið á móti henni.

Þegar menn hafa nefnilega lægri (en 30.) þynningarnar, og gefa meðalið optar inn, og mönnunum ekki nema 1 dropa í einu, er auðskilið, að menn geti ekki tekið eptir því, að einkenni sjúkdómsins aukist, eða homöopathisk versnun

komi, því þetta verður einungis þá, er mjög háar þynningar eru viðhafðar, það er: þegar mjög mörg einkenni og snertibroddar meðalsins æsa sjúkdóminn. Hahnemann, og þeir sem honum fylgdu vel, höfðu 30. þynningarnar, eins og menn vita, og urðu opt varir við homöopathiska versnun; þeir fundu það líka, að einstök minnsta inngjöf, já, enda tóm lykt af meðali, hafði mjög miklar áhrifur. En eptir þessu hafa þeir síður tekið, er seinna fóru að hafa lægri þynningarnar.

Jeg ætla nú ekki að fara fleiri orðum um þetta, en minnast nokkuð hins vegar á þær

**Mótbárur gegn homöopathíunni,**

sem menn hafa komið með frá ýmsu sjónarmiði, því homöopathían og allopathían eru enn sem stendur ekki sammála, en það sundurlyndi þeirra hefur mjög góðar afleiðingar, því ef að hvorirtveggja við hafa sanngirni í stríði þessu, hlýtur það að leiða sannleikann í ljós.

Mótbárur þær, sem komið hafa gegn homöopathíunni eru nú mjög ýmislegrar tegundar, og beinast þær að henni annaðhvort sem vísindagrein eða sem læknisaðferð.

I. Í mótbárum sínum gegn homöopathíunni fara mótstöðumenn hennar því fram:

„að homöopathían komi mönnum til að fyrirlíta alla vísindalega lækninga-aðferð, þar eð hún bindi sig einungis við sjúkdómseinkenni þau, sem komi í ljós, en reyni ekki til að komast eptir upptökum og eðli sjúkdómsins“.

Hufeland nefnir jafnvel homöopathíuna „gröf vísindanna“ „því“, segir hann, „homöopatharnir þurfa hvorki líkamaþekkingarinnar (Anatomie) lífsaflafræðinnar (Physiologie) nje sjúkdómafræðinnar (Pathologie)“ o. s. frv.

En nú hefur Hahnemann hvergi nokkurn tíma farið því fram, að kennslubók hans í læknisfræði homöopathíunnar (Organon) innibindi í sjer öll læknafræðis vísindi, og gjöri allan annan lærdóm óþarfan. Homöopathinn á að leggja stund á þessar vísindagreinir, til þess að færa sjer það í nyt, sem gagnlegt er í þessum fræðum, þó að hann finni þar margt, sem honum er ónýtt. Líkamabyggingar-lífsafla- og sjúkdóma-fræðin geta kennt homöopathanum, hve mikið sje varið í að þekkja sjúkdómseinkennin, og að gjöra mun á aðaleinkennum sjúkdómsins og auka-einkennum. Nú segja mótstöðumennirnir enn fremur: „sjúkdómseinkennin eru ekki sjúkdómurinn sjálfur“; það verður að finna tilefni sjúkdómsins, brjóta hann á bak aptur og eyða honum til þess að sjúklingurinn verði albata“. Tolle causam! (nem þú burt tilefnið), er grundvallar-regla hinnar svo nefndu skynsamlegu lækninga-aðferðar. — En nú hefur enginn dauðlegur maður enn getað uppgötvað eðli sjúkdómsins, og hvað tolle causam snertir, þá gefur homöopathinn nákvæmar gætur að hinum verkandi tilefnum sjúkdómsins, þegar þau sjást eða geta fundizt. Enginn hefur getað fundið hvað kalda (Feber) eða hitaverkir (Betændelse) sje. Líkskurðurinn lýkur að eins upp fyrir oss híbýli

dauðans, en lífsathöfnina getum vjer eigi lengur sjeð. Margir vitstola menn hafa vera krufðir, en þó hafa engin tilefni fundizt til vitfirringarinnar á heilanum. En opt hafa þar á móti fundizt gallar á lífsverkfærunum þar sem menn áttu þess engar vonir. þó að 4 góðir læknar sjeu við beð hins sjúka, ber það opt við, að sinn ætlar hvert tilefni vera til sjúkdómsins, og líkskurðurinn sannar, ef til vill, ekki getgátu neins þeirra. Menn hafa, og það óretttlega, nefnt homöopathíuna sjúkdómseinkenna-lækning. — Sjúkdómseinkerna-aðferðin gefur einungis gætur að einu vissu einkenni, er einkum þjáir sjúklinginn, og þetta reynir allopathinn að bæla niður með gagnstætt verkandi (palliativ) meðali. Homöopathinn gefur gætur að allri stefnu sjúkdómsins, að því leyti sem hægt er, en byggir ekkert á tómum ágizkunum. Ef menn lesa kennslubók Hahnemanns, þá geta menn ekki sagt, að meðferð hans á sjúklingunum sje ljettúðarleg eða yfirvarp eitt. Hún styðst ætíð við nákvæma rannsókn á sjúkdómseinkennunum, og hann mælir fastlega móti getgátum og lækninga tilraununum, sem á engu eru byggðar. Aðgreining hinna einkennilegu sjúkdómseinkenna styðst við líkskurðarfræði, lífsafla- og sjúkdómsfræðina og útheimtir mikinn lærdóm og djúpa skarpskyggni. „það er svo langt frá því", segir Rummel, „að homöopathían berjist gegn vísindunum, að hún vill einungis viðurkenna hin sönnu vísindi, og útrýma öllum getgátum úr læknisfræðinni. Vjer viljum ekki neita reynslu allopathíunnar, ef að það reyn-

ist sönn reynsla, en vjer viljum leiða í ljós sagnir hennar og getgátur; vjer viljum ekki neita gagnsemi þessarar læknisfræði í öllum greinum, en vjer viljum sýna, hvernig læknarnir fylgdu ekki náttúrunni eins og **Hippokrates**, heldur brutu hana niður, hvernig þeir töluðu um lækningakrapt náttúrunnar, en bældu þó niður hreifingar hennar með harðri hendi, hvernig þeir töluðu um sjúkdóms tilefni, en læknuðu þó eptir sjúkdómseinkennunum. Vjer viljum sýna þeim, hve lítil skynsemi er fólgin í diguryrðum þeirra; hvernig hin sanna skynsemi sje, að viðurkenna bönd þau, sem að oss þrengja; hvernig að þekkja megi lög hlutanna, en ekki orsakir þeirra."

Önnur mótbára, sem menn hafa til fært gegn homöopathíunni sem vísindagrein, er þessi:

„**Það er fjarstætt að leiða þekkinguna um lækningakrapt meðalanna af því að reyna þau á ósjúkum.**"

En hvað þá? Eru verkanir læknismeðalsins kraptaverk, eða náttúrleg áhrif, sem stríða móti sjúkdóminum, af því þær breyta annaðhvort ástandi líkamabyggingarinnar að öllu eða nokkru leyti? Nemur uppsölumeðalið gallsýkina burtu eins og með töfrum, eða með því að draga fyrst saman magann og innýflin og valda velgju og uppsölu? Hafa ekki uppsöluvínsteinn, rhabarbarrót og spanskfluguplástur o. s. frv. eins áhrif á heilbrigða eins og sjúka? Menn verða því að aðgreina frumáhrif meðalanna frá eptirverkunum og lækningaverkunum þeirra. Þær eru afleiðingar baráttunnar og sigursins, sem meðalið hefir unnið yfir sjúkdóminum. Frumáhrif-

in sýna vissa eiginlegleika meðalsins til að breyta heilbrigðisástandinu á vissan hátt bæði hjá sjúkum og ósjúkum. Eptir þessum frumáhrifum hafa menn nú t. a. m. uppsöluvínstein, rhabarbarrót og spánskfluguplástur, o. s. frv., í hinni vanalegu meðalafræði. En hve mörgum meðölum er einungis til hagað eptir lækninga áhrifum þeirra? þannig t. d. Chamómillu og China, sem menn þekkja einungis að því leyti, sem þau hafa læknað, án þess að vita, hvernig þau hafa áður verkað á líkamabygginguna. það er einungis þekkingin á frumverkunum meðalsins sem getur gjört oss færa um að gjöra grein fyrir árangri lækningarinnar, og að við hafa þau meðöl alstaðar þar sem þau eiga við. þetta er hin mikla hugsun Hahnemanns, sem hann hefur sýnt og sannað í sinni óblönduðu meðalafræði.

Hinn nafnfrægi háskólakennari Jörg, einn af mótstöðumönnum homöopathíunnar játar þó, „að mörg villa sje og margt vanti í hina almennu meðalafræði, og að það að reyna hin einföldu meðöl á heilbrigðum, sje hið bezta ráð til þess að koma á reglu og vissu í meðalafræðinni. Tilraunir hans sjálfs með meðölin á ósjúkum neyddu hann til að játa þetta; því fleiri tilraunir sem hann segist hafa gjört til að reyna áhrif meðalanna, því meir hafi undrun sín vaxið á því, hve lítið menn hingað til hafi þekkt lækningar eiginlegleika þeirra, því hann hafi ekki einu sinni fundið eitt einasta meðal í handbókum lækna (Materia medica), sem lýst hafi verið öldungis eins og það hafi reynzt sjer í

tilraunum sínum á ósjúkum". Jörg hefur með mörgum dæmum sýnt það órækt, að áhrif þau, sem meðölin hafa á öll lífsverkfæri líkamans, sjeu í rauninni öll hin sömu hjá sjúkum og ósjúkum. Af þessu sannast þá, að þegar brúka á meðölin, er einungis undir því komið, að haga svo inngjöf meðalsins, að hún sje í rjettu hlutfalli við viðspyrnu-afl lífsverkfæra hins sjúka líkama.

Menn hafa brugðið því fyrir, að hverjum einstökum manni sje hætt við einum eða öðrum kvilla, einum sje hætt við flugkveisu, öðrum við magaveiki, o. s. frv.; en eins og öll útvortis áhrif hafa ekki öldungis sömu verkun á hvern einstakan, þó að allar verkanirnar, sem þau leiði í ljós sjeu þeim eiginlegar, eins má finna, með því að reyna meðölin á ýmsum mönnum, öll þau áhrif, sem þau hafa beinlínis (positiv). Hin einkunnarlegu einkenni meðalanna koma fram hjá öllum, sem þau eru reynd við, og hin önnur áhrif að minnsta kosti hjá flestum. En þegar sama verður ofan á, þegar meðalið er reynt á 20, 30 eða jafnvel 50 mönnum, þá er það heimskulegt að vilja ekki viðurkenna krapt meðalsins. Hvert meðal leiðir því í ljós þau einkenni, sem því eru eiginleg, þegar það er brúkað í þeim sjúkdómi, sem svarar til meðalsins, því þá er líkaminn hæfastur til að taka móti áhrifum atriðis-einkennisins, og þó það væri það einkenni, sem sjaldnast kæmi fram á ósjúkum.

Þeir mótstöðumenn, sem ekki gátu fundið neitt að hinni hreinu meðalafræði Hahnemanns hafa sagt: „Það er samvizkulaust og grimmdar-

legt að kveikja gjörðarsjúkdóm í heilbrigðum manni, og setja hann í þá hættu að deyja af vissum sterktverkandi meðalategundum, eða að minnsta kosti að missa krapt og blóma heilbrigði sinnar".

þessu má þannig svara: 1. Allar þess konar tilraunir eru gjörðar með mestu varasemi, samkvæmt reglum þeim, sem gefnar eru í Organon, og eptir þeim reglum munu engir geta sagt, að Hahnemann eða lærisveinar hans sjeu eiturbirlar. Aldrei er meðal reynt á heilbrigðum manni í stærri skömtum heldur en allopathar brúka daglega á sjúkum, og þessi meðöl er þeir nefna eitur, eru einmitt hið sama sem þeir gefa hinum sjúka í stórskömtum.

2. það er hvorki tilgangur homöopathans nje nauðsynlegt að kveikja langvinnan sjúkdóm í heilbrigðum manni, en það er nóg að meðalið sýni öll einkenni sín, og þau hverfa fljótt aptur. það er einungis ef meðalið er brúkað til lengdar, að langvarandi gjörðarsjúkdómar geta komið fram, t. a. m. merkúrsýki, sem of opt hefur leitt af læknis-aðferð allopatha til að eyða syphilis.

3. Reynslan hefur nægilega sýnt, að þessi skammvinni kvilli, sem þannig er vakinn í heilbrigðum líkama, er langt frá að skaða heilsuna, að hann miklu fremur styrkir hana, og gjörir líkamann hæfari að standa móti öllum sjúkdómsáhrifum, Staph. Gross og margir aðrir hafa gjört slíkar tilraunir á sjálfum sjer, og hinn mikli styrkur líkama og sálar fram á elli-ár hjá höfundi homöopathíunnar, sem

svo mjög og stöðugt reyndi hin ólíkustu meðöl á sjálfum sjer, er án efa hin bezta sönnun fyrir þessu.

4. Homöopatharnir gjöra flestar þessar tilraunir á sjálfum sjer. Þegar þeir gjöra þær á öðrum, er það einungis á þeim, sem bjóðast til þess sjálfir af áhuga fyrir vísindunum og hinum lifandi meðbræðrum sínum. Hvernig getur þetta heitið grimmdarlegt eða gagnstætt góðum siðum? En er það þar á móti ekki grimmdarlegt og samvizkulaust að reyna óþekkt læknismeðöl á sjúkum líkömum fátækra sjúklinga eins og allopatharnir verða að gjöra, þegar þeir vilja reyna lækningakrapt meðalanna einungis á sjúkum? Og þetta er svo almennt gjört á spítölum, að menn hryllir við, þegar þeir lesa það, sem sjálfir allopatharnir játa um þetta. Þar á það fullkomlega við sem höfundur ritgjörðarinnar: Die Homöopathie nach ihren Haupsptzügen, Brunsvik 1829, 60. bls. segir.: „Slíkir læknar (þeir nefnilega, sem reyna meðöl sín ekki á sjálfum sjer, heldur á fátækum sjúklingum á spítölum), eru líkir Crispin helga; nema sá er munurinn, að hann stal leðrinu frá þeim ríka til að gjöra úr því skó handa fátækum, en slíkir læknar svipta hina fátæku ekki einungis leðrinu heldur lífinu, til þess að lengja með því líf hinna auðugu. Hahnemann og vinir hans leggja sína eigin húð í sólurnar, en allopatharnir rista breiðan þveng af annars lengju“,

Hahnemann er svo guðlaus, að hann fyrirlítur náttúruna og lækningarkrapt hennar“, hafa mótstöðumennirnir enn fremur sagt,

til þess að gjöra einnig grunsamleg trúarbrögð höfundar homöopathíunnar. Hecher var sá fyrsti, er kom fram með þenna áburð, og báru synir Hahnemanns hann undan því. Þá bar Jörg það aptur fram, en M. Müller rak hann röksamlega. Síðan hafa seinni mótstöðumenn homöopathíunnar Heinroth, v. Wedekind, Sachs, jafnvel Hufeland, Krüger-Hansen, Kramer og aðrir borið þetta fram á ný, án þess að hafa tillit til áður nefndra varnarrita eða andans í lærdómi Hahnemanns. Þegar nú þessir herrar stæra sig af lotningu sinni fyrir náttúrunni og lækningakrapti hennar, sem þeim þykir Hahnemann vanta, þá er þetta einungis hlægilegt, þar eð lækningaðferð þeirra sýnir of ljóslega, að þeir virða náttúrukraptinn lítils og enda fyrirlíta hann, þar eð þeir gjöra gis að honum með því að brúka gífurleg (heroiske) meðöl. Aptur á mót sannar ljóslega andinn í kennslu Hahnemanns, og öll lækninga-aðferð hans, hve mjög hann virðir náttúruna, og með hversu mjúkri og heilagri lotningu hann fer með hina fullkomnustu skepnu í henni, manninn. En þegar hann ræðir um hina brjóstumkennanlegu viðburði náttúrunnar til að útrýma sjúkdómum, eða að hún lækni þá á óhentugan hátt, hver getur þá nema af vondum ásetningi misskilið slíkt, þegar gætt er að öllu samanhenginu. Hver getur t. a. m. neitað því, að beinbrot, ef það er látið ráða sjer sjálft, grær saman skakkt eða undið, ef mennirnir sjá ekki um að beinið t. a. m. leggist rjett saman; eður að mikil blóðrás

valdi dauða, ef hún er ekki stillt með mannaltöndum? Hver getur kallað læknisfræðina guðlöstun, þó að hún hjálpi náttúrunni í slíkum og líkum tilfellum? það getur þó varla heitið að lasta guð og náttúruna, þó að menn segi samkvæmt sannleikanum, að hún lækni ekki af sjálfri sjer barnaveikina, Mutterkrebs, eða hundrað aðra sjúkdóma, sem annaðhvort eru ólæknandi, eða einungis læknandi með læknisíþrótt, heldur að það er margreynt að sjúklingarnir deyja kvalafullum dauða, ef að íþróttin tekur ekki fram í eða gjörir það ekki rjett, þannig dettur þessi ástæða einnig um sjálfa sig og sannar það enn að nýju, hve mótstöðumenn homöopathíunnar naga skelina utan á henni, en annaðhvort vilja ekki eða geta ekki komizt að kjarnanum í henni.

II. En fjölda mörgum mótbárum hefur nú einnig verið hreift móti **læknis-aðferð** Hahnemanns, einkum neita mótstöðumennirnir sannleik læknisreglunnar: similia similibus curantur: þ. e. sjúkdómar verða læknaðir með þeim meðölum, sem í heilbrigðum manni kveikja viðlíkustu sjúkdómseinkenni þeim er lýsa sjer hjá hinum sjúka. Hahnemann hefur sýnt að flestar heppilegar lækningar á öllum tímum sjeu til orðnar á þenna hátt, án þess að læknarnir þekktu það, eða hefðu trú á því, og að öll svo nefnd einkunnarmeðöl sýni lækningakrapt sinn samkvæmt náttúrulögmáli því, sem Hahnemann hefur fundið, og sem er sífellt starfandi. þessa uppgötvun Hahnemanns má eigna honum að sama leyti eins

og Newton er eignuð uppgötvunin á þyngdarlögunum. Menn höfðu í margar þúsundir ára sjeð epli falla af eikunum án þess að veita því neina sjerlega eptirtekt, og þó vakti þessi hversdagslegi viðburður hjá Newton hugmyndina um einhver hin merkustu lög náttúrufræðinnar. Því skyldum vjer þá fremur undrast það, að menn hafi í þúsund ára aldir sjeð lækningarnar áður en Hahnemann skýrði frá því, hvernig þær til yrðu? Læknisregluna: contraria contrariis curantur hafa jafnvel mótstöðumenn homöopathíunnar, t. a. m. Schulz hætt við og álitið ranga. Margföld reynsla margra frægra lækna, sem hafa verið allopathar, og hafa því fyrst verið fremur móti enn með homöopathíunni, hefur staðfest sannleik og iðju þess náttúrulögmáls sem Hahnemann hefur uppgötvað. Er það sennilegt, að allir þessir læknar hafi af nokkurs konar töfrum verið neyddir til að tala lýgi eina, eða að tilviljunin hafi verið þeim svo hliðholl, að hún hafi látið allt eptir þeim þegar þeir beittu læknisreglu homöopatha? Menn yrðu vissulega að neita allri sögulegri trú, ef menn vildu halda áfram að berja slíkt blákalt fram. En þó að nú fáein af hinum mörgu dæmum sem Hahnemann telur í inngangi sínum til Organon, um homöopathiskar lækningar, væru ekki öldungis viss, þá eru þau þó flest áþreifanleg, og þó ekki væri nema helmingurinn af þeim 100 tilfellum, sem mæltu með uppgötvun Hahnemanns, þá væri það nóg til að vekja almenna eptirtekt. Homöopathiska læknisreglan gildir ætíð þar sem brúkuð eru hin svo

nefndu einkunnar meðöl. Eptir því sem Rau segir, veldur Merkur þegar hann er gefinn inn í stórum skömtum grafkaunum í kverkunum, sem eru mjög lík Venuskaunum; litlir skamtar af Merkur lækna þessi kaun. — Belladonna ollir verkjum og einkennum, sem mjög eru lík þeim, er koma, þegar vitlaus hundur bítur mann, og opt hefur þetta meðal læknað þá veiki. Pulsatilla gjörir sjóndepru; en hún er líka gott meðal við þess konar kvillum. Lítill skamtur af rhabarbar-rót stillir niðurgang; í stórskömtum er hún höfð sem hreinsunarmeðal. Eins er um Opium og Ipecacuanha, o. s. frv. Samburður lækninga þeirra, sem taldar eru í Organon Hahnemans, í ritgjörðarsafni hinnar homöopathisku heilbrigðisfræði (Archiv für homöopathische Heilkunde), o. s. frv., sýnir það skýlaust, að hinar töldu lækningar hafa verið gjörðar samkvæmt grundvallarreglum homöopathíunnar. Nýlega hafa menn fært það til gegn þessu, að hinar svo nefndu samlækninga (isopathiske) tilraunir hrindi lækningareglu Hahnemanns. En þetta er þó ergan veginn; þetta styrkir miklu fremur kenningu hans, vinnur henni festu og stækkar svið hennar, svo að menn á þenna hátt ná vissari og betri árangri, ef að nákvæm reynsla og eptirtekt sýnir, að lækningingar þær, er sagt er að þannig gjörist, sjeu sannar lækningar. Aðalatriðið í hverri lækninga aðferð er — fullur bati! Náist hann skiptir litlu hvernig gjörð er grein fyrir lækningunni, ef lækninga-aðferðin er rjett.

Ekkert atriði Homöopathíunnar hafa menn optar rifið niður og hæðst að, heldur enn smærð homöopathisku skamtanna og tilbúningi þeirra. Skynsemi vorrar aldar, sem ekki vill játa, að hún hafi nein takmörk, neitar í ofurhuga sínum öllu sem hún getur ekki skilið, og þó eru þeir hlutir til undir sólunni, sem heimspekin getur ekki fengið neinn draum um. — Þó að nú skynsamir mótstöðumenn láti sjer lynda að kveða ekki upp dóm sinn í þessu máli, þar eð þeir hafa enga reynslu í því efni, og þó að öllum, sem gjört hafa margar og nákvæmar rannsóknir, reynist lærdómur þessi sannur og viss, og þeir verði þannig mestu varnarmenn homöopathíunnar, sem áður hafa verið ákafastir mótstöðumenn hennar, hefur þó allur fjöldi lækna í hinni eldri læknisfræði álitið hana ekkert nema vitleysu og aðhlátursefni, sökum þess að þeir einblína á hið stórgerða í náttúrunni, og þar eð slíkt sje óskiljanlegt, sje það líka (?) ómögulegt. En er nú þetta samkvæmt reglum hugsunarfræðinnar? Hve mörgu yrðum vjer þá ekki að neita, af því vjer getum ekki skilið það! Vjer skiljum ekki eigin tilveru vora, en getum vjer þá neitað henni? Lesið þjer hinir efablöndnu sögu sálarinnar eptir G. H. Schubert háskólakennara í München, og yður mun sýnast annað!

„Hið ástæðumesta og ástæðuminnsta, hið bezt hugsaða og hugsunarlausasta, sem jeg hefi sjeð móti homöopathíunni, lendir að lyktum í nokkrum upphrópunarorðum, sem mikið á líklega að liggja í“. segir höfundur bókar, sem heitir: Briefe eines

homöopathisch geheilten, Heidelberg 1829, 45. bls. „Jeg ætla vjer yrðum ekki lengi með hið óskiljanlega, ef vjer værum fyrst búnir með hið skiljanlega. Hvernig gjörir decillíónpartur af einu grani arsenik verkun sína? jeg veit það ekki; en jeg veit ekki heldur, hvernig fullt spónblað af rhaharber gjörir sín áhrif. Og þjer herrar mínir! jeg spyr ekki hvort þjer getið betur útskýrt það, það efast jeg ekki um, en vitið þjer það þess vegna betur en jeg? Rás blóðsins í líkamanum þótti læknum 17. aldarinnar einber vitleysa, og nú þykist hvert barnið finna hana af sjálfu sjer, af því það hugsar sjer hana í sambandi við ýmsar tilfinningar sínar. Hin fyrsta uppkoma sólarinnar hefur vafalaust verið hinum fyrstu mönnum tilefni til undrunar. Enn er fegurð og háleikur sólar uppkomunnar hinn sami, en af því að sólin rennur upp dag hvern, þykir slíkt engum undrum gegna. Aldrei sjáum vjer, ef til vill, eins glögglega hundraðþúsundaðasta part dropans eins og dropan sjálfann. Væru verkfæri sjónar vorrar svo gjörð, að vjer sæjum það, þá mundi oss efalaust sýnast það eins óskiljanlega mikið að gefa inn heilan dropa, eins og oss virðist nú lítið að gefa hundraðþúsandasta partinn“.

„Óskiljanlegleiki hinna óendanlega smáu homöopathisku skamta og áhrifaafls þeirra er eiginlega einungis falinn í skilningsmegni hvers einstaks, er um það dæmir. Í vísindalegri rannsókn má ekki fremur neita því sem einungis er óskiljanlegt, en

í yfirnáttúrlegum efnum. Smærð hinna homöopathisku skamta er ekki annað en áframhald af sundurskiptingu á skömtum hinnar vanalegu læknisfræði. Hin vanalega læknisfræði mun fyr sætta sig við hina smáu homöopathisku skamta, og fallast á þá trú, að þeir geti þó haft nokkur áhrif, ef að hún setur blöndunarfræðina á lægri dómstól, en lofar aptur á mót náttúrufræðinni að hjálpa hinni efandi skynsemi með líkindasambandi. — Menn þurfa ekki annað en gæta að hinum einföldustu áhrifum á skilningarvitin til að sjá það, að óendanlega mikil þynning geti þó sýnt verkun sína. Moschus og alls konar tærar (ætheriske) olíutegundir, en einkum ómenguð rósenolía gefa svo árum skiptir, án þess að ljettast nokkuð, svo sterkan ilm, að veikbyggðir og viðkvæmir menn fá af því höfuðverk, það hefur áhrifur á ilmverkfærin á homöopathiskan hátt. Viss reynsla sýnir opt það, sem hin svo nefnda heilbrigða skynsemi getur ekki skilið. Hin almenna læknisfræði veit, t. a. m., að mjög lítill skamtur af Ipecacuanha ($\frac{1}{20}$ úr grani) er ágætt meðal við magaveiki (kveisu). Hvorki skilningavitin nje blöndunarfræðis-rannsókn gæti fundið þenna litla skamt. Og þó að læknisfræðin geti ekki útlistað mörg atriði homöopathíunnar, þá finnum vjer margt er styður oss í náttúrufræðinni. Þessi vísindagrein leyfir oss bæði að skyggnast inn í þau ríki náttúrunnar, sem ekki verða vegin, og hún ásamt aflafræðinni (Mechanik) hjálpar undarlega mikið skilningarvitum vorum. Sá er þetta ritar, vildi feginn geta sýnt lesendum sínum verk-

smiðju Repsolds. Þar gætu þeir meðal annars sjeð vog, sem sýnir glögglega $\frac{1}{10000}$ part úr grani; þeir gætu sjeð, hvernig ekki þarf nema að styðja fingri niður til að beygja saman járnbjálka, og hvernig hinn minnsti viðbætir við hitann þenur út holt málmkefli; þeir gætu sjeð, hvernig fletirnir geta skipzt ótrúlega; þeir mundu, í einu orði, missa alla hræðslu sína fyrir hinu óskiljanlega".

„Hve ljettvægar á hinn bóginn sýnast mótbárurnar móti smærð homöopathisku skamtanna og verkunum þeirra, þegar menn hugsa sjer skiptilegleik ljóssins og hita-efnisins í algeyminum, hve veikar allar tilraunir eru að útskýra eða vefengja, þegar vjer lítum yfir alla niðurskipun hins líkamlega og andlega lífs! Hvar eru þá takmörk útskýringanna? En vjer þurfum ekki að fara svo langt; Lífsaflafræðin ein getur gefið bendingar um að grundvallarregla homöopathíunnar um verkun meðalanna geti átt sjer stað. Hún viðurkennir sjerstök áhrif á taugar skilningarvitanna, sem maðinn fái vitneskju um, hvað lítil sem þau eru; því skyldi hún þá ekki geta fallizt á, að hver taugafljetta, taugavefur og hver taugagrein geti snortizt sjerstaklega af áhrifum, sem homöopathían hafi fyrst komizt á að þekkja. Oss virðist þessi útskýring að minnsta kosti eins gild og þær ástæður sem hin venjulega læknisfræði hefir fært fyrir verkun meðalanna".

G. H. Schubert (sem ekki er homöopathi) segir til útskýringar á verkunum hinna homöopathisku smáskamta: „Læknisaðferð sú á seinni tím-

um, sem menn hafa nefnt homöopathíu verkar á tvennan hátt: með því að varna allri nautn sem æsir og vanmegnar, og með því að brúka stöðugt um langan tíma meðöl, sem er skipt svo smátt sundur, að það líkist tilraunum þeim, er Rob. Brown gjörði. Hann smækkaði með ráðum duptkorn líkamanna ómælanlega, og kom á þau svo sterkri hreifingu, að þau sýndust sjálf hrærast líkt og lifandi kvikindi. Efnin, blönduð með vatninu, sýnast þá verka á líkan hátt og rafurmagn með því að snerta húðina framar en að hann verki á innyflin eins og hinar vanalegu inntökur. Á meðan kornin tolldu saman í einum líkama, hlýddu þau einungis samdráttaraflinu; en hin nákvæma sundurdeiling gaf þeim hina rafurkynjuðu hreifingu, sem augað finnur á þeim í stækkunarglerinu".

Rummel segir til að skýra verkun hinna homöopathisku smáskamta: „Aflaukning meðalanna með því að rífa þau og hrista er engan veginn fjarstæð hinu almenna náttúrulögmáli, heldur byggð á hinu eiginlega eðli útþenslu-aflsins, og undir þá reglu má og heimfæra verkun meðalanna. Skiljanlegust er eflaust útlistun Korsakoffs í fræði hans um sóttnæmi efnanna (Ansteckung), sem hann byggir á mjög einfalda reglu til að auka afl meðalanna, þó menn hafi ekki fallizt enn á hana almennt.

Um tilbúning homöopathisku meðalanna hafa mótstöðumennirnir einnig borið margt ósatt fram, og reynt árangurslaust að gjöra homöopathíuna að aðhlátursefni með reikningum, sem byggðir hafa verið á hlægilegum og öldungis vitlausum grund-

vallarreglum. Sumir hafa, t. a. m. viljað sanna, að vatnið sem þurfi til að þynna einn decillíóndropa, sje vatnshnöttur svo stór, að hann sje nokkrar billíón mílur að þvermáli. En öll fyrirhöfnin að reikna þetta er til einkis, þegar Hahnemann þurfti ekki nema 3000 dropa af vínanda til decillíón þynningar. „Þetta er einungis torskilið sökum þess, hvernig það er orðað", segir dr. Biegel. Homöopathisku meðölin eru þynnt frá einungunni til þrítugasta brots einingarinar. Ekki þarf annað en setja 1., 2., 3. skipting (þynning), fyrir 100, 10,000, millíónir, o. s. frv. og mun það ekki hneixla neitt skynsemina, sem veit vel, að einn meðala dropi, sem látinn er saman við 8 lóð vatns. gagnblandast við alla hluti vatnsins. Þessi 8 lóð vatnsins eru í rauninni allur sá vökvi, sem þarf til að skipta meðalsdropunum í öllum 30 brotunum." Um tilbúning homöopathisku meðalanna viljum vjer enn bæta þessu við: öll meðöl sem fást úr nýjum jurtavökva, býr homöopathinn til á þenna hátt: hinni nýji vökvi er undir eins blandaður vel með jafnmiklu af sterkasta og hreinasta vínanda, og eptir 24 klukku stundir hellir maður úr þessu glasi, — sem skal vera vel byrgt, geymast í mátulega heitu húsi, og svo að sólskin nái ekki til — hinum skæra vökva sem leitar ofan á eggjahvítu- og jurtatauga efnið, og þetta er geymt til meðalabrúkunar. Einn dropi af þessari vökvablöndu, er látinn saman við 100 dropa af vínanda, og er glasið svo hrist tvisvar fast með hendinni, og er þetta 100 föld þynning ($\frac{1}{100}$). Einn dropi af þessari blöndu, eins hristur

saman við 100 dropa vínanda, gjörir 10,000 falda þynningu, og einn dropi af því aptur blandaður við 100 dropa vínanda gjörir þynninguna millíónfalda. Þannig gjörir maður í 30 glösum þynninguna decillíónfalda, sem vant er að hafa í lækningum. Af hinum vökvaminni plöntum, t. a. m. lífstrjenu (Thuja occidentalis) mylur maður fyrst grænu blöðin, hrærir þau síðan saman við tvo þriðjunga vínanda að vigt, og kreystir svo vökvann úr, og er síðan farið með hann eins og nýjan jurtavökva. Með plöntur, sem ekki geta fengizt nýjar, börk, frækorn, rætur, og önnur þurr eða að minnsta kosti ekki fljótandi efni, fer maður svo: Eitt gran af þess konar efni (ef það eru hörð efni eins og gull og silfur, og ekki málmtegund í þunnum blöðum, rífur maður efnið fyrst niður á mjúkum steini í vatni þangað til það er orðið að smádupti, og ef það er bergolía, eða eitthvað því um líkt, tekur maður einn dropa af því), er fyrst hrært snöggvast saman við hjerumbil þriðjung af 100 grönum mjólkursykurs í ógleraðri postulínsskál með postulíns- eða glerspaða, síðan rífur maður þessa blöndun í 6 mínútur, og eptir hjerumbil 4 mínútur skefur maður duptið úr skálarbotninum og af hnallendanum, sem einnig skal vera ógleraður, til þess að duptið blandist sem bezt, og mylur svo þetta, sem skafið er, út af fyrir sig, eins fast í 6 mínútur; en þegar búið er nú eptir 4 mínútur að hreinsa og rífa saman duptið, er öðrum þriðjungnum, sem eptir var af mjólkursykurs duptinu, bætt aptur við, þetta er nú hrært snöggvast saman með spaða, og

svo aptur mulið jafnfast í 6 mínútur, svo er það sem skafið er upp innan 4 mínútna rifið aptur í 6 mínútur, og þegar búið er að skafa það upp í 4 mínútur, er það blandað með seinasta þriðjungnum, og allt til samans svo mulið í 6 mínútur, skafið upp í 4 mínútur, og núið svo aptur í 6, og þá skafið saman. Dupt það, sem þannig er tilbúið, hefur í sjer 100 faldan aflauka, og er geymt í byrgðu glasi. Til þess að gefa nú þessu meðali 10,000 faldan aflauka, er aptur eitt gran af því blandað eins saman við 100 grön af mjólkursykri, og á sama hátt er haldið áfram til milliónar. Af þessum þriðja tilbúningi er 1 gran leyst upp í 100 dropum af vatnsblönduðum vínanda, sem áður er tilbúinn með því að blanda saman 100 dropum af vatnslausum vínanda og jafnmiklu af hreinsuðu (destilleret) vatni (hvorutveggja milli frosts og hita), og er það svo hrist með hendinni 10 sinnum; þessi uppleysing er tvíhrist, og síðan er 1 dropi hennar látinn í 100 dropa vínanda, og þannig haldið áfram að blanda 25 sinnum glas úr glasi með tómum vínanda rjett eins og jurtavökvi er blandaður að decillíónparti. — Uppleysingin á mjólkursykrinu í vatnsblönduðum vínanda verður á þann hátt, að maður veltir glasinu um í nokkrar mínútur. Þetta látum vjer nægja til að gefa lesendum vorum hugmynd um aðferðina við þynningu meðalanna, og rekur það hina hlægilegu reikninga mótstöðumannanna, er áður voru taldir.

Aðrir mótstöðumenn segja: „Ef einum meðala dropa væri kastað í Genfer vatnið, yrði allt

vatnið gott til homöopathiskra lækninga“. En homöopathían blandar ekki meðaladropanum saman við mikið vatn, heldur einungis saman við 100 dropa af vínanda (eða mjólkursykurdupt) í einu. Blöndunin er því ekki lausleg, heldur mjög nákvæm, því hún verður með því að hrista meðalið, eða mylja það. En — má nú samt gjöra Genfer vatnið að homöopathisku meðali, með að láta í það dálítið af meðali? það er varla efunarmál! það þarf ekki annað en fá sjer það ílát sem tekur allt vatnið, og þá svo sterka hönd, sem hrist getur það ílát!

Skynsamari mótstöðumenn segja það sje raunar skiljanlegt, hvernig læknast geti, en ekki verkun svo lítilla skamta, því 1. sje loptið sem vjer drögum að oss ætíð fullt af af loptstegundum og hættulegri meðalakenndri gufu, og vjer verðum þá að vera sífellt veikir. 2. Ef að hinir smáu homöopathisku skamtar hafi verkun, þá hljóti allopatha stórskamtarnir ætíð að vera drepandi, eða að minnsta kosti ætíð hættulegir og geta aldrei læknað. Að vísu er margs konar gufur í jarðloptinu, en þær eyða hver annari, og eru svo blandaðar og linaðar af hreina loptinu að þær valda venjulega engum veikindum, þær hafa ekki heldur neinn aflauka, og sama er að segja um jurtagufuna af engi, skógi og aldingörðum. En ef veikur maður finnur að eins eina þessa gufu, verður hann eflaust veikari, t. .a m. gufu af Moschus, eða sóttargufu, o. s. frv. Hinu síðara atriði má þannig svara: af því stefna antí- og allopathíunnar er svo öldungis ólík homöopathisku aðferðinni, verða líka meðölin að vera ólík.

þess vegna er það ekkert tiltökumál þó að skamtarnir sjeu misstórir. Antipathían og allopathían þurfa að hafa stóra skamta, af því verkunin á að verða gagnstæð eða hjá allopathíunni mjög ólík. Til þess að vekja sjúkdóm í þeim pörtum líkamans, sem ekki eru hneigðir til þess, þarf stóra meðalaskamta. Homöopathían verkar nú mjög fráleitt frá hinum báðum. Meðalið verkar beinlínis á aðsetur sjúkdómsins, og verkun þessi er mjög svipuð þeim veikindum, sem eru í líkamanum. Verkfæri hins sjúka líkama eru mjög viðkvæm, og því nægir mjög lítill skamtur til að koma fram gjörðarsjúkdómi, sem á að berjast við og bæla niður hinn sjúkdóminn. Stór skamtur mundi auka sjúkdóminn svo mjög að lífskrapturinn gæti ekki unnið sigur á honum, og hinn sjúki að líkindum deyja af versnun þeirri, sem fylgdi á eptir meðalinu. Minnkun homöopathisku skamtanna flýtur beinlínis og er skynsamleg afleiðing af grundvallarreglu hinnar nýju fræði. Antípatharnir og allopatharnir hafa rjett, er þeir segja: „því þyngri veikin er, þess stærri skamta þarf“, en hinar skaðlegu verkanir þeirra dyljast ekki. Homöopatharnir hafa aptur á mót líka rjett, er þeir segja: „því þyngri veikin er, þess smærri verður skamturinn að vera“. „Hahnemann færir sjálfur til dæmi um homöopathiskar lækningar með stórskömtum allopathanna“, segja mótstöðumennirnir; því má svara: 1. það er mjög misjafnt hversu meðölin hrífa á hinn sjúka, og hversu viðkvæmur hann er. 2. Læknar hinnar eldri fræði gefa sjaldan eitt meðal út af fyrir sig, heldur mörg

saman blönduð, svo að hvert þeirra dregur úr verkun annars. 3. Af hinum stóru skömtum leiðir opt vonda eptirkvilla eða tæmingar, sem náttúran hefur til að losa sig við hin ofmiklu meðöl áður en þau hafa gjört alla verkun sína. En af því menn geta nú ekki ætíð vitað fyrir, hversu viðkvæmur sjúklingurinn sje, á maður að gefa sem minnsta skamta. Litlir skamtar hlífa einnig kröptum hins sjúka og gjöra viðspyrnu lífsaflsins hægri, því þeir standa minna móti því með áhrifum sínum.

En fremur bregða mótstöðumenn homöopathíunnar henni um það, hve einföld meðöl hennar eru, því þeir segja: 1. Að eitt meðal hrökkur engan veginn við öllum sjúkdómseinkennum. 2. Að menn verði með ýmsum leiðrjettingum að bæta úr hinum hættulegu aukaverkunum meðalanna. 3. Og að fleiri en eitt meðal til samans sýni opt öldungis nýjan krapt til heilsubóta, sem ekkert einfalt meðal geti haft. — Fyrsta mótbáran sprettur af ófullkomlegleik meðalaþekkingarinnar, af því menn hafa ekki reynt meðölin á ósjúkum, og þekkja því ekki hinar fjölmörgu verkanir þeirra. Þessi reynsla leiðir í ljós fjölda sjúkdómseinkenna, er sýna verkun meðalsins á ýmislega sjúkdóma. En hinir homöopathisku skamtar sýna, sökum þess hvað þeir eru smáir, hin svipuðu sjúkdómseinkenni, sem snerta hinn sjúka part líkamans; hin einkennin koma ekki í ljós eins og þegar hafðir eru hinir stóru allopathisku skamtar.

Þó að svo fari, að eitt meðal svari ekki til allra einkenna sjúkdómsins, er homöopathían ekki

vön að gefa inn fleiri meðöl undir eins, heldur eitt á eptir öðru, því þegar mörg meðöl eru höfð undir eins, getur maður aldrei sagt hvert þeirra verkað hafi til heilsubata eða spillis. Vjer vitum einungis, hvort blöndunin a, b, c og d hefur haft þessa verkun eða ekki, en vjer getum ekki vitað, hvort a eða b, o. s. frv. hefur haft hana. Ranglega segja menn um sum meðöl, að þau hafi hættulegar aukaverkanir, því þessar vondu verkanir koma miklu fremur af hinum óhóflega stóru skömtum. Öll svo nefnd leiðrjettingameðöl ónýta verkanir hvert annars, eða þau verða nýtt atriði í lækningunni, og er þá ekki hægt að vita verkanir þeirra fyrir fram. Að vísu geta stundum tvö meðöl haft betri verkun en eitt, en þá er hún nýtt atriði fyrir sig, og verða menn þá að hafa reynt það á heilbrigðum líkama áður en það er haft til lækninga, en nú sem stendur hefur meðalafræðin nóg að gjöra að prófa hin einföldu meðöl. Fjöldi þeirra meðala, sem menn þegar hafa fundið, leiðir til þeirrar hugsunar, að náttúran hafi til einföld meðöl við öllum sjúkdómum. Hið einfalda og óbrotna er einkennilegt náttúrunni. Að ætla sjer að lækna með samsettum meðölum, er að vinna gegn náttúrunni. Hin mörgu húsmeðöl (húsráð), sem enn eru til, eru öll brúkuð á einfaldan hátt. Hinir lærðu læknar bættu seinna ymsu við þau, og síðan hafa þau misst álit sitt. Um Kínabörk er það víst, að fyrst er menn þekktu hann í Norðurálfu, og hann var gefinn í smærri skömtum, reyndust áhrif hans miklu meiri og fljótari, heldur en seinna í stór-

skömtum, og eignuðu menn það því, að hann væri svikinn. En hin minni verkun margrar uppáhalds Kínabarkar blöndu, sem búin hefur verið til eptir reglum allopathíunnar, er að líkindum fremur að kenna lærdómi Norðurálfubúa en lærdómsleysi Vesturheimsmanna, og vera má það sannist á endanum, að hið nafnfræga heilsubótarafl, sem chinin hefur, sje einungis því að þakka, þegar það er haft í litlum, óblönduðum skömtum. Fyrir því að brúka sem minnsta og um leið hina náttúrlegustu og einföldustu skamta, mælir reynsla eins manns, sem er úr þeirra flokki, og kunnugur er þessari vísindagrein. Það er alkunnugt, að gullið var lengi útilokað úr meðalafræðinni, af því menn gátu ekki sýnt, hvernig það gæti haft áhrifur á líkamann. Þrátt fyrir það hefir Chrestien í Montpellier, sem varla hefir þekkt Hahnemann neitt, og var að minnsta kosti ekki lærisveinn hans, fundið það líka, að minnstu skamtarnir gjörðu mesta verkun, og þegar hann var búinn að þreyta sig á alls konar tilbúningi og samsetningu á því, sá hann að það var svo langt frá að nokkur saltsýrublöndun, eða önnur yki verkun þess, að það spillti henni heldur, og að það gjörði á engan hátt eins mikið gagn, eins og á hinn einfaldasta, sem maður getur hugsað sjer, nefnilega í svo smáu dupti sem mögulegt er.

Álit Montagnes um það, hve illt hið margfalda samsull meðalanna sje, hefur leitt höfund bókarinnar: „Briefe eines homöopathisch geheilten“ til líkra hugsana. „Vjer drögum“ — segir hann — „meðalaefnin í meðalafyrirskriptum vorum eins og tölur á band, og höfum tylft meðala-efna í eitt meðal, auk þess sem vjer nú brúkum 2 eða 3 meðöl jafnhliða, sem eru öll, ef til vill, margsamsett, og þó á ekkert meðalið að koma í bága hvað við annað eða verkanir þess. Læknirinn, umboðsmaður — eptir því sem verkast vill — lífsins eða dauðans, stendur í sambandi við

alla parta hins mannlega líkama, ráðleggur og hjálpar; hann hleður meðölum sínum saman í aðdáanlega blöndu og sendir þau svo ofan í magann. Maginn er eins og viðtakandi póstbrjefa. Hann lýkur upp þessari lækninga pósttösku, og sendir svo meðölin fljótt og rjett til þess líkamaparts, sem þau eru til, svo og svo marga dropa eða grön lengra niður í innýflin, svo og svo mikið til tauganna, o. s. frv. Hver hluti líkamans fær það sem honum er ætlað, ekki meira og ekki minna, og á hverjum stað, verða þau einu áhrif sem ætlazt er til, hvað sem á meðan gjörist nú á líkan hátt annarstaðar í líkamanum. Jeg hefi varla haft tal af neinum hinum betri læknum, er ekki hafi gjört sig dálítið til af hinum svo nefndu einfaldari samsetningum meðala sinna, en þó hafði hann varla gjört svo eina meðala fyrirsögn (Recept), að ekki væri tvennu eða þrennu blandað saman. það er kátlegt að stæra sig af að hafa einföld meðöl, af því maður blandar saman tvennu eða fernu, en ekki 10 eða 20 meðalategundum, eins og það væri rjett að nefna samsett meðöl einföld, eða það væri sama að við hafa ranga grundvallarreglu sem hefir vitlausar afleiðingar, eins og að fylgja rjettri reglu! Ef að hrein og fullkomin áhrif hvers meðals leiða af því, að það sje einfalt, þ. e. að það sje við haft eitt og óblandað, þá liggur það í augum uppi, að það skaðar jafnmikið, að blanda einu öðru saman við, eins og að blanda 10 saman við“.

„Homöopathisku meðölin“ segja enn fremur mótstöðumenn homöopathíunnar, „eru eiturtegundir“. þeir eru nú optast aldrei sjálfum sjer samkvæmir, og af því leiðir aptur, að sumir þeirra segja, að hinir smáu homöopathisku skamtar, geti ekki haft nein áhrif (og þá geta þeir ekki verið hættulegir!) en sumir a hinn bóginn, að meðölin sjeu sterkasta eitur, og þess vegna sje það svo hættulegt djöfulsins uppátæki, að homöopatharnir búi til og láti sjálfir úti meðöl sín.

Menn geta nú sjeð hvers vegna þessi rógburður er framborinn, en varla er hægt að sjá hvort meira skal undrast óskammfeilnina eða illgirnina, sem liggur í þessu. Tilbúningur hinna homöopathisku meðala er fyrir löngu alkunnur. Hinar góðu afleiðingar homöopathíunnar liggja fyrir allra augum. það er hagur sjálfra homöopathanna að lækna sem flesta sjúka. Hvað skyldi geta komið þeim til að brúka þau meðöl, sem eru lífi manna hættuleg? Skyldi það vera samsæri móti öllu mannkyninu? Um lækningar allopathíunnar með eiturtegundum skoði menn einkum Krüger Hansen: „Die Homöopathie und Allopathie auf der Wage“. Í því riti er óttaleg afmálun af eyðileggingu þeirri meðal mannkynsins, sem allopathían hefur ollað frá alda-öðli. Hinn áður nefndi áburður allopathanna er einungis sannur þar sem lyfsölumenn og læknar, eins og dæmi eru til, hafa meingað homöopathisku meðölin með arsenik og öðrum eiturtegundum, til þess að geta fært sönnur á róg sinn. Hve tilfinningarlítið, fljótt og til frambúðar homöopathisku meðölin lækna, það sýna hinar mörgu þúsúndir, sem hún hefur læknað, og útbreiðsla homöopathíunnar, sem fara sýnist dagvöxtum.

það er reyndar hægðarleikur að segja við sjúklinginn, sem vill brúka homöopathisk meðöl, að þau sjeu eitur, en augljóst er hvað samvizkusamlegt og ráðvandlegt það er, þegar sömu læknarnir sem þetta segja, hæðast að því við aðra á öðrum tímum, hve afllaus homöopathisku meðölin sjeu, rjett eptir því sem þeir ætla sjer takist betur að villa í hvert skipti, og á þenna hátt halda þeir, að þeir geti bætt úr hinni samvizkulausu vanþekkingu sinni á homöopathíunni. þegar allopatharnir brúka stórskamta af öllum hinum sömu eiturtegundum: arsenik, opium, vitriol, blásýru, kvikasilfri, belladonna, aconitum, stramonium, og fylla með því kyrkjugarðana, hvernig vilja þeir þá gefa homöopöthunum það að

sök, að þeir gjöri skaða með smáskömtum af því sama? Eða er það tilbúningur homöopathisku meðalanna, sem allopatharnir eigna þetta óttalega afl? það stríðir nú aptur samt á móti fyrirlitningu þeirri, sem þeir hafa haft um að mylja og hrista meðölin, sem þeir hafa nógu opt sagt að væri óþarft,, tilgangslaust og árangurslaust. Í stuttu máli: mótstöðumenn homöopathíunnar komast hjer eins og alstaðar í hinar mestu mótsagnir, og gjöra sjálfa sig með því að athlægi.

En aðrir segja: „Homöopathían skaðar með aðgjörðaleysinu“. þegar mótstöðumenn homöopathíunnar geta ekki neitað. að hún lækni opt vel, þá kenna þeir það öðru, reglusemi í mataræði, blindri trú, ímyndun og einkum lækningakrapti náttúrunnar. En þó nú væri gjört ráð fyrir að þetta væri svo, væri þá ekki allopathíunni langtum betra að fylgja þessu aðgjörðaleysi (Nichtsthun) og láta öll hin auka-atvikin lækna, heldur en að gjöra óútmálanlegt tjón með læknisaðferð sinni, eins og hinir frægustu áhangendur þeirra játa. þegar homöopathían gjörir ekkert í stöku tilfellum, þá sýnir það einungis hinn almenna ófullkomlegleika allra vísinda og íþrótta mannkynsins, þar eð sjálfsagt eru til ólæknandi sjúkdómar, og homöopathían getur ekki gjört mennina ódauðlega. það sem klaufalegir læknar í homöopathíunni geta gjört til skaða, má ekki kenna sjálfri homöopathíunni; en að hún verki kröptuglega í öllum bráðum og hörðum sjúkdómum, sanna ótal dæmi um homöopathiskar lækningar á bólgusóttum (inflammatoriske Sygdomme), o. s. frv. „Alla sjúkdóma“, segir dr. Gross, „sem allopathían þykist geta læknað, á homöopathían hægt með að lækna, og þær lækningar hennar sem miður takast, eru þó ætíð langtum betri en þær sem bezt takast hjá allopathíunni“. Hve marga langvinna sjúkdóma, sem allopathían hefur verið hætt að reyna við, hefur ekki homöopathían læknað fljótt og vel? Og þó að nú allt þetta kæmi af öðru en hinum smáu skömtum,

þá væri þó lækningin, sem er höfuðatriði, ætíð lofsverð. Um hættulegar bráðabyrgðar lækningar homöopathíunnar, geta engir talað nema allopathar, sem ekki þekkja til hennar, og hálf-homöopathar, sem en þykjast opt þurfa að grípa til allopathiskra meðala, og hafa þannig gefið mótstöðumönnum vopn í hendur (samanber Krü ger Hansen: Die Homöopathie and allopathie auf der Wage). Hvað mikið hæfilega vandlát reglusemi í mataræði gjöri að verkum, viðurkenna sjálfir allopatharnir. En að mataræðið eitt gjöri eigi lækninguna einungis, sýna þau dæmi, þar sem fljótt læknast, án þess fylgt sje reglusemi þeirri í matarhæfinu, sem homöopathían fyrir skipar. Trú og traust á læknunum er mjög fagurt í sjálfu sjer, en því miður, vantar allopathana opt þetta hvorttveggja. En smábörn og skepnur hafa þó ekki þessa trú, og ekki er hægt að verka á ímyndunarafl þeirra, og þó takast homöopathisku lækningarnar eins vel á þeim og hinum eldri. Ef að lækningakraptur náttúrunnar veldur öllum þessum lækningum, því læknaði hann þá ekki áður heldur eptir að búið er að taka inn homöopathiska meðalið? Og spyrja mætti, hverjir fleiri syndir drýgðu, homöopatharnir með því að láta sumt ógjört, eða allopatharnir, með því að fara rangt að? En úr þessari spurningu hafa hinir frægustu allopathar leyst fyrir löngu í vil homöopöthunum.

Hjer þarf og að geta þess, er menn hafa borið homöopathíunni á brýn, þegar menn segja, að matarhæfisreglur homöopathíunnar sjeu sultarlækning. Hinar óttalegu sultar og kvala lækningar allopathanna eru of alkunnar, en ekki geta aðrir en þeir, sem ekki þekkja til eða rógberendur talað um slíkt hjá homöopöthunum. Það er svo langt frá, að homöopathían heimti sveltingu í matarhæfi, að hún heimtar miklu fremur, að matur og drykkur sje nærandi, og laus við allar meðalategundir. Þar sem allopathían bannar hinum sjúku kjötsúpu og kjötmat, þá mælir homöopathían aptur á mót fram með þess konar

matvælum, að menn seðji sig á þeim, en ofmetti sig þó ekki. Þannig segir dr. Kopp í Hanau í bók sinni: „Denkwürdigkeiten in der-arztlichen Praxis“. „Menn hafa borið það út, að matarhæfi hinna homöopathisku sjúklinga væri mjög vont og þeir væru sveltir, en þetta er fjærri lagi, því optast ræður homöopathían til að brúka kjöt, kjötsúpu, egg, o. s. frv. í hófi, án þess nákvæmlega sje til tekið, hvað mikið það skuli vera. Það er sanngjarnt og skiljanlegt, að það sje heimtað af sjúklingnum, að hann skirrist við að neyta neins, er espar og æsir, en ekki þess er styrkir. Reynslan hefur líka sýnt, að þegar sjerstök dæmi eru undan tekin, er ekki þörf á eins mikilli,reglusemi í matarhæfinu eins og menn fyrst hjeldu, því inngjafir homöopathanna hafa verkað, þó að matarhæfisreglunum hafi ekki verið fylgt, og er það enn ein sönnun fyrir afli þeirra. Samvizkusamur og skynugur sjúklingur mun þó optar vera heldur strangur en oflinur í því að fylgja matarhæfisreglunum, og sneiða fúslega hjá öllu, sem getur spornað við lækningunni. Sjálfur Hahnemann leyfir eldri mönnum, sem því eru vanir, kaffi og vín, en þó minna en þegar þeir eru ósjúkir: Soðnar súpujurtir gjöra ekki heldur ætíð skaðlega verkun, nema svo væri, að Pjetursselja væri höfð í steinsóttum, því hún verkar beint á móti meðalinu, og sviptir það krapti. Ofmikill strangleiki mundi líka gjöra mann viðkvæmari fyrir áhrifum þeim sem ekki er unnt að komast hjá. Kryddjurtirnar missa jafnvel við suðuna mikið af hinu skaðlega afli, og engu af þessu er heldur gefinn kraptauki. Menn geta að öllu samtöldu reitt sig á, að fæstir af þeim sem hafa þó læknazt, hafi fylgt strangri reglu í matarhæfinu. Matarhæfisreglur homöopathíunnar geta ekki fælt aðra frá að brúka þær en þá, sem ekkert geta lagt í sölurnar, er heptir holdlegar fýsnir þeirra. Allir sem hafa lært að stjórna sjálfum sjer, hlífast ekki við að fylgja þessum einföldu matarhæfisreglum, er minnkar nautn þeirra að eins

um stuttan tíma; og þeim fellur þetta matarhæfi opt svo vel, að þeir halda því meir eða minna eptir á, af því þeim líkar betur hinn einfaldi náttúrlegi lifnaðarháttur og hann eflir hagsæld þeirra.

„Homöopathían“ segja að lyktum mótstöðumennirnir, „getur ekki læknað alla sjúkdóma“, þessari mótbáru er nú svarað hjer að framan að nokkru leyti, en það geta menn sagt aptur á móti, að homöopathían læknar opt þar, sem allopathían getur ekkert að gjört. Að homöopathían geti ekki læknað bólgusóttir og bráðasóttir, er villa sú, sem allopatharnir af ásettu ráði halda enn fram; en að lækna megi flest sárafar (chirurgiske Sygdomme) með homöopathíunni vilja mótstöðumenn hennar engan veginn láta sjer skiljast, þó að sannanirnar fyrir því liggi fyrir allra augum. Að það, að homöopathisku meðölin eru svo fá, sje ástæða fyrir því, að þau geti ekki læknað alla sjúkdóma, er ekki heldur á meiri ástæðum byggt, því meðalaauður homöopathíunnar, er þegar orðinn meiri en allopathíunnar, sem þekkir fæst af verkunum hinna ótölulegu meðala sinna. Að öðru leyti gildir setningin: non multa, sed multum hvergi meir en í hinni verklegu læknisfræði. Eins og Reil sagði þegar fyrir löngu, að góður læknir ætti að geta skrifað alla meðalafræði sína á þumalfingurnögl sína, þá er það — þegar meðalafræði (materia medica) er einungis skilið um meðalanöfnin á meðölum læknisins, eins og Reil hefur víst átt við — ekki svo illt ráð, því ekki er það meðalafjöldinn, sem gjörir lækninn góðan, og gagnar hinum sjúka, heldur viss og nákvæm þekking á verkunum þeirra. Homöpathían læknar á vissastan, fljótastan og auðveldastan hátt; en allopathían fer óbeinan veg, læknar til bráðabyrgða, og leggur opt sjúklinginn í mikla hættu, og stundum læknar hún á homöopathiskan hátt án þess að vita það.

